Domino,
Dno Jacobo LAN-
GEBECK,
Studioso optimo,
atque à me
bene merentissimo
optime semper
Jehova Opem Ferat
Hafniæ, ad d. 15. Apr.
Ao M.DCCXLI.

Compl

# Christenn Hwss-Fader,

Edur

Velmeint

# Raad-legging

Til

Allra Gud-hræddra Huss-fedra, hvernin þeir med þeirra Heim-kynne daglega eiga ad þiona Gude.

Utlagdt wr Donsku aa Is-lendsku.

Kaup-manna høfn, 1741.
Prentad i Kongsins og Kaupen-hafnar Haa-Skoola Prentverki, af Johann Jorgen Hopffner.

Landsbókasafn

*Imprimatur.*

At denne Approbation saaledes findes i Facultatis Theologicæ Protocoll, vidner hermed som bemældte Facultæts Notarius.

Marcus Wöldike D.



# For-maali.

Øllum gudhrædd-
um og Christnum Forelld-
rum, yfirbodurum og Hus-
bændum aa Js-landi, aasamt
øllu þeirra Huse, veiti Gud
mikla Naad, Frid og Heilags
Anda Stiornan i JESU
Nafne!

Hversu þad Land-pl-
aats, i hveriu Gud-
rækilig Huss-stioornan er al-
A 2 mennt

mennt idkud, sie luckuligt; og hvert aa moti pad Lands-plaats o-lukkuligt, i hveriu hun er vanrækt; ber siaalf Reynslan umm so skijrt vitni, ad pad er af henni hverium heilvita manni kunnigt. Giætin Husstioorn er ein Þvijlijk Moder, sem fædir af sier Vijsdominn, og margar Dygdir, enn gaalaus Husstiorn fædir af sier Faavitskuna, og marga Lesti, eptir Læri-fodursins Bernhardi Ordum. Pvi er pad ei einasta fyrir Gudi syndsamligt, helldur og aasamt Lande

og

og Lydum miøg so skadsamligt, þegar Forelldrar og Huus-bændur leggia undir hofud þa Skipan, ad upp-ala sijn Børn og Hiw i aga og umm-vøndun til Drottins, Eph. 6, 4. v. Ad GUD verdi þar med styggdur, er aa medal annars, audsært af þvi, hversu hann gramdist soddan Synd vid Eli Kenni-mann, 1 Sam. 2, fra 31. v. til þess 36, og i 3. Cap. 12. 13, og 14. versum, so og i 4. Cap. 17. og eptir-fylgiandi Versum. Ad Lond og Lydir verdi þar med skadadir, er deginum lioosara. Þvi af hveriu orsakast Guds

Peckingar-leysi, Lygar, Stuld-
ur, Blot, Klaam, Kefkni,
Dryckiufkapur, Saur-lijfi,
Forogtun, Ohlydne, Dramb-
femi, og þvij-lijkar Syndir,
fem i ollum Stiettum drygdar
eru? Ad vifu ei fiift af þvi,
ad Modir Siettanna, fem
er Husftiornar Stiettin,
vanrækir Skylldu fijns Em-
bættis. Jaa, ef Forelldrar og
Hus-bændur væru fialfir idn-
ir, og vendi fijn Born og
Hiw til Idne, væru þar ei i
Lande voru fo margir Leting-
iar, ei foddan Omennfka,
Faa-kunnatta, og þar af rijs-
ande Or-byrgd.

Ef

Ef Hus=stiornar Stiettin legdi aluud aa ad temia og venia, bædi med Lærdome og Lifnadi, sijn Born og Hiw, til GUds Otta og goodra Sida; og framar enn hwn nw um stundir giorir, med Gudrækilegum Hus-aga, ad aptra þeim fraa Glæpum og Lostum, mundi eigi Kennidoms Stiettinne so torsokt vera, sem henne nu annars er, ad faa folk til ad laata af illu, og læra gott ad giora, Esa. 1, 17. v. Og eigi mundu þaa so margir i Landinu þurfa ad kenna aa Ressingar vendi

Veralldlegrar Valld=stiettar, nie ad rietta Haalsinn under Boduls Oxena.

I Til=liti til þessa, og i þeirri Meiningu, ad raad=leggia Hus=stiornar Stiettinne ad gefa Gud=rækilegar Giætur ad sinne Embættis Skylldu, hefi eg mier fyrir hendur tekid **þennan** Bækling, sem i fyrstu er aa Eingelsku saman=skrifadur, kalladur Christinn Hus=fadir, ur Donsku aa vort maal ad wt=leggia, og at þryck gaunga laata; sierdeilis, þar eg veit ei i þvi,

nockurn Bækling sier i lage sama Inne-halldz, sem þennann til-vera.

Med-taked nu Christnir Forelldrar og Yfir-bodarar þenna Bækling, ( hverium eg ei hroosa framar, enn hann siaalfur viisar sig ad verdskullda) Christelega, og frammkvæmid epter hanns Tilviissan ydar Embætti vid ydar Undir-gefna. Guds Andi stiorni ydur einum og sier-hverium, med ydar Børnum, Hiwum og Vardnadi, ad lifa gudrækiliga, og deya saalu-hiaalplega; so ad þeir med þeim, og þau med ydur, mættud

hiaa Honum, sem er Fadir yfir ollu þvi sem Born kall-ast, glediast og fagna eilijflega! Þess oskar

Ydar

Kaup-manna hofn,
þann 20 Dag Januarii,
Anno Christi 1741.

Velviliadur Vin, og
Fyrir bidiare
Biorn Magnusson.





Christenn
# Hwss=Fadir,
Edur
Hvernin sierhver fromur Huss=
Fader skule aa=samt ollu sinu Heim=
ilis folke þiona Gude i sijnu
Huuse,
Framm=færdt af
Josuæ Cap. XXIV. v. 15.
med þessum Ordum:
## Jeg og mitt Huus, vier vilium þiona Drottne.
I. Cap.
## Textinn maa þañig ad=greinast og hanns Lærdomar wt=þydast.

I þessum Ordum er oss i stuttu Maali fyrir Sionir sett, hversu Josua hafi Gud=
 hrædd=

hræddan Asetning ad þiona Gudi med øllu sijnu Huse; og høfum vier þessar Greiner ad athuga.

1. Hver þessa Alyktan hafi giort? Josua.

2. Hvernin hann hafi viliad koma þessum sinum Asetninge i full-kom-id Verk? Fyrst vill hann siaalfur, sijdan og allt hans Huus skuli þiona Drottni.

3. Hversu vijdt þessi hanns Asetningur wt-breidi sig? sem er, ei einasta hann siaalfur, helldur og allt hans Huus (edur Heimilis-Folk) skuli þiona Drottni.

4. Hvad hann hafi aa-sett at giøra? ad Þiona Drottni.

Sierhvert þetta Stykke kann ad gefa oss sinn sierdeiles Lærdom; enn eg vil saman-draga þau øll, og alleinasta tala umm i hverri einlegri Meiningu Josua hafi framm-fært

þessi

þessi Ord. Pad hendtar og best til mins A-forms, nefniliga at yfir-bevijsa Ollum Forelldrum og Hwss-bændum, ad þad sie þeirra Embætte og Skyllda, ad æfa alltijd Gudlegar Jdkaner med øllu þeirra Husi; og þetta skal þaa vera Høfud-greinin. Pad er allra Forelldra og Huss-bænda Embætti, ad bera stærstu Ummhyggiu fyrir þvi, ad ei einasta sialfir þeir, helldur og allir þeir sem þeim byriar ad hafa Til-sion med, jaa allt þeirra Huus, skule truuliga þiona Drottni.

Pad er eigi nog fyrir Huuss-Fedur, ad þeir sialfir eru godir Christner, helldur byriar þeim og ad vera Christelegir Huus-

fedur. Pad er ei nog, at þeir fyrir siaalfa sig eru Gudhrædder, helldur eiga þeir ad leida til sannrar Gudrækninnar þeckingar og idkunar alla þa sem þeim tilheyra; þvi i Raun og Sañleika kunna þeir alldrei at vera goder Christner, sem eigi Christeliga stiorna þeirra Heimilis Folke. Saa hefur sannlega ærid litla Gudrækni til ad bera, sem ei alvarlega kappkostar sitt Huuss-Foolk til hennar ad aafysa. Þannin lætur Josua, sem saa hellsti og ypparsti i Huusenu, sier vera hugar-hallded, ei alleinasta fyrir siaalfann sig, helldur og allt sitt Huus, ad hann med þvi, og þad med honum vilie þiona Drottne. Og þad finnum vier, og kunnum ad i-huga, ad aa øllum tijdum, hafa þeir, sem af Guds Naad hafa mest upp-lyster vered, hvad kappsamleg-

ast

ast og iduglegast æft þeirra Huuss Andakt. So giørdi Abraham, Fader riett-truuadra, hverium og siaalfur Gud gaf þann Vitnisburd: **Jeg þecki Abraham, at hann mune bioda sijnum Børnum og sijnu Huuse eptir sinn Dag, ad vardveita vegu Drottins,** Gen. 18. Cap. v. 19. J þessi Abrahams Fot-spor geck og so hanns Sonar sonur Jacob, sem ei liet sier þar med nægia, ad hann siaalfur þionadi Gudi hreinferduglega i Bethel, helldur aa-vann hann so mikid hiaa þvi foolki, sem var i hans Huuse, **at þeir urdu ad burt-kasta þeim Af-gvudum, sem voru medal þeirra,** 1 Mos. B. 35. v. 2. eptir hanns Ordum og Tilskipan. Jafnvel þott David væri Konungur, og yrdi ad bera Umm-hyggiu fyrir heilu Kongs rijki, þaa

vanrækte hann þo ei vegna sins Kong-
liga Embættis Syslana, ad koma
sannre Gudrækne i full-komid Verk
i sijnu eigin Huuse. Þar fyrir
vitnar hann og so opinberliga þann-
ig, Psalm. 101. v. 2. Jeg vil
framm-gaanga i Hiartans
Fromleika i mijnu Huuse.
Þad er; ad hann truuliga villdi giøra,
þad er hverium Huuss Fødur ber.

Hid sama maa og optlega finna
i þvi Nya Testamentinu. Paulus
bydur øllum Christeligum Forelld-
rum yfir hofud, ad þeir upp-
fræði sin Born i Guds Otta,
Eph. 6. v. 4. Soleidis giordu og
þeir fyrstu Christnu aa Postulanna
Tijd, ad so fliott sem Huus-bondinn
var umm-vendtur, og hafdi teked
vid Christilegri Truu, þaa kappkost-
adi hann og ad leida sitt Heimilis
Folk til Guds þionustu. Vier les-
um

um umm Cornelium i Postulanna Giorningum, i þeim 10 Cap, v. 2. Ad hann var Gud-hræddur madur, er ottadist Gud med ollu sijnu Huuse. So segist þar og i sømu Bokar 16. Cap. v. 15. Umm Lydiam, ad hun hafi verid skijrd, og allt hennar Huus. Og i sama Cap. v. 34. stendur þar umm Myrkva-stofu Vørdinn, ad hann hafi truuad aa Gud med ollu sijnu Huuse. Jaa, aa þeim fyrstu tijdum kolluduft Truuadra Huus Søfnuder, so sem Rom. 16, v. 5. 1 Cor. 16, v. 19. Col. 4, v. 15. Med hveriu aavijsast, ad Folkid, sem þeir høfdu heima i þeirra Huusum, voru so Christeliga aa sig komnir menn, og Gudrækilega upp-frædd-ir, ad þeir miklu helldur kuñu heita Smaa-søfnuder, enn al-menn Huus.

Huus. Þetta er ad aa-lykta med Josua: Jeg og mitt Huus, vilium þioona DRottne.

II. Cap.

## Þær riettu Orsaker til þessa Lærdoms.

Epter ad vier høfum grundvall-ad þenna vorn Lærdoms Punct aa Heil. Ritningu og hennar Epterdæmum, vilium vier þad sama framar styrkia med aa-nægeligum Orsøkum, og tøkum vier.

1. Þaa fyrstu af Guds Skip-an og Bodi, sem hann wt-þryckeliga hefur wtgefid i 5. Mos. Bok, 6. v. 7. Þu skallt bryna þessi Ord fyrir Bornum þijn-um og ræda umm þau, þaa þu situr i Huusi þijnu. Og hversu

hverssu stora Velþocknan ad Gud hafe hier aa, auglyser hann þar med, ad hann hroosar Abraham fyrir þad, ad hann vilie bioda Bornum sijnum, og Huuse, epter sig, ad vardveita vegu Drottens, 1 Mos. B. 18. Cap. v. 19. Aa lijkann haatt ut-krefur og Gud af einum og sierhverium, er hann virdir þess, ad setia hann til Fodur yfir Børn, edur Huss-bonda yfir Þionustu Folk, þeirrar Skylldu, ad hann Christeliga uppfræde alla þaa sem hañ rædur yfir, og hallde þeim til sannrar Gud-rækne.

II. Sw ønnur Orsok er þesse: Hver-einn Huuss-Fader hlytur vandlega ad gefa Giætur ad sijnu eigin Huuse, þad er hanns Embætte. Hanns Heimilis Foolk er hanns Hiørd, aa hverri hann aa

ad taka vara. Þier muned aller jaata, ad sier-hver einn Prestur sie skylldugur ad hafa Gudrækeliga Tilsion yfer sinne Hiörd, og hönum muni þungt veita at svara til þess fyrir Guds Dome, ef hann er þar i forsomunarsamur. Enn hafed þier eigi, O Huss-Fedur! eins storan Vanda aa hendi vid ydar Hus-folk, sem hver einn Prestur vid sinn Søfnud? An alls tvijls. Jeg þori fylleliga ad segia, ad sier hver Huss-bondi egt at giora svo storan Reikningskap fyrer sinna Barna og Pionustu-Folks Saaler, sem Presturenn fyrir sinna Tilheyrenda Saaler. Þar fyrir, þa Ydar Börn og Þionustu Folk lifer og deyr i þeirra Syndum, søkum Ydar Forsomunar og Vanræktar, þa vited fyrer vijst, ad þeirra Blods verdur ut-krafed af ydar hende, Og ad þeir sem þess vegna hrapa i eilijfa

Fordæm-

Fordæmingu munu biturt formæla
þeim er i þessu lijfe hafa þvi valldid.
O! ad allir Forelldrar og Huss bænd-
ur villdu laata sier þetta alvarlega
til hiarta ganga, og i tijd og tijma,
med øllum hiart-gronum truskap
og innilegri Astundan, gefa giætur
i sannre Gudrækni, ad þeirra Em-
bættis Skylldu, bædi a þeirra Børn-
um og Þionustu Folke.

III. Þridia Orsok til adur-
tieds, er, at Rettvijse og Sann-
syne ut-heimter þad af ydur, ad
þier stunded sem mest, ad upp-fostra
ydar børn og hiu i Guds Otta, og
kenna þeim ad ganga a Gudrækn-
innar vegum. Þau eru ydur i so
miklu til Ad-stodar og Hialpar i ydar
Huss-naudsynium, hvers vegna þad
er og so riettvijst, ad þier sieud þeim
aptur i þessu eitt adstodar og hialp-
ar Medal. Epter þvi Gud af sinne
Giædsku

Giædsku hefur latid þau verda ydar Børn og Þienara, þa byriar ydur makliga til þacklætis merkis þar fyrer, ad hafa alvarlega Astundan þar a, hvernen þier aptur a mot kynnud ad giora þau til Guds elskulegra Barna og trurra þienara. Lated vera, þier tilbæreliga klæded, fæded og forsorged ydar Børn og Hiu, jaa jafnvel kenned þeim idugliga, hvernen þau i framm tijdenne kunna ad lifa og leita sinnar atvinnu, sem annad Folk; Enn hvad giored þier med þvi raunar meira eñ heidner Forelldrar og Huss-bændur, so framt þier kenned þeim ecki sanna Gudrækne, i hverri þau kunne ad lifa sem sann-Christner þessa heims, og sijdan eilijflega sem utvaldir annars heims? Þvi hid fyrra laata ei Heidingiar Sijna vanta, sem Postulenn vitnar, þa hann seg-
er,

er, 1 Tim. 5. v. 8. hver sem eigi rækir sitt, og einkum sin hiuu, hann hefur Trunne afneitad, og er heidnum verre. Og þegar þier giored ei meira, enn ad hafa utvortes ummhyggiu fyrer Lijkømum ydar Barna og þionustu folks, þa erud þier ei einu hare betre enn van-truader Heidingiar: So siaed þier þa, þier sem erud Husbændur og Forelldrar, hversu mikel Magt ydur liggur a, ad hafa vakande Umm-hyggiu fyrer ydar Barna og Þionustu Folks Saalar Velferd, og kappsamlega ad venia þau til Bænrækninnar, Guds Heilaga Ords Idkana, og Gudrækilegs Lifnadar; hvar med þier ei einasta meir fram-kvæmed vid þa sem ydur tilheyra, enn Heidingiarner vid Sijna, helldur og einnen frammkvæmed þier med þessu eitt gott

verk

verk vid ydar eigin Salir; Þvi so leinge þier i þessu erud alvørugefner, er þad viist Kenne-teikn, ad Guds Nad bue i Ydur og aa knye ydur til þess, jaa, ad þier sieud sann-christner Forelldrar og Husbændur.

IV. Su fiorda Orsøk er, ad Guds Bølvan hanger yfir þvi Folke og Huse, hiaa og i hveriu, ad Gudræknennar Idkaner eru alldeiles forsomadar, Jaa, þeim tilheyrir su Bølvan, sem sa viise Salomon skiirlega talar umm i Ords Kv. B. 3. v. 33. med þessum Ordum: Bølvan DRottens er i Huse O-gudrækenna. Hversu sem þeir synast kunna ad hafa alls gnægtir, og sieu i veralldlegri Vel-geingne, audlegd og virdingu vollduger; so er þo allt þad þeir hafa, undir Guds Bølvan, sem Gud sialfur bert gierir fyrir Spa-mann sinn Malachi-

Malachiam Cap. 3, v. 2. sem seger: Hann vill bolva þeirra Blessun. Þad er, allt tijmanlegt Godts, sem þeir eiga, skal verda þeim til Bolvunar. Umm þetta sama talar og Eliphas i Jobs B. 5 Cap, v. 3. Eg saa Daarann grodur-settann, og eg bolvade strax hanns Huse. Þad er: eg sa epter ut-vortes Asynd, ad hann sat i stundlegri Vel-geingne, enn under eins saa eg og med Truarennar Sion Bølvan yfer hanns Huse og Folke, og yfir hanns Godse og Eignum.

V. Fimta Hofud-Orsøk, til ad knya Forelldra og Husbændur ad hallda þeirra Børnum og Hiuum til sannrar Gud-rækni, kann takast af þvi margfallda gagne og Nytseme, sem þar a epter plagar almenneliga ad fylgia, hvar meñ

soleidis i Saalu og Samvitsku aa-setia sier ad ottast og elska Gud. Þvi 1. hver sem þannig i siinu Huse þionar Gude, hann mun ei alleina draga Guds Blessan yfir sialfan sig, helldur og yfir alla Siina, yfir sitt Embætte, Handaverk, Gods, og efne øll. So sem Obed Edom, og allt hanns Hus, vard blessad vegna Satt-maals Arkarinnar, so skedur þad og vissulega, ad DRottenn blessar þau Hus, hvar inne menn þiona honum dyggeliga. Þvi Gud-ræknen er til allra hluta nytsamleg, hafande þessa Liifs Fyrirheit, og so hins epter-komanda, 1Tim. 4. v. 8. So segir og hinn viise Salomon, ad Hus O-gudlegra mune af-maast, eñ Tialldbuud hinna fromu mun blomgast,

Ords Ovida B. 14, v. 11. Fyrer þvi Kallar og Psalma Skalldid þann mann sælann sem ottast Drottenn, þa hann seger: Sæll er sa, sem ottast Drottenn, og geingur aa hanns Vegum; af erfide þinna handa muntu næra þig; sæll ert þu, og þier mun vegna vel, Psalm. 128. v. 1. 2. 3. Hvernen kunna þeir þa ad vænta sialfum sier, sinum Børnum og Þionustu Folke, edur og til sins erfides og þianingar nockrar Guds blessunar, sem i sijnu Huse eckert hirda um Gud, edur hanns sanna Dyrdkan, þar þo med henne skal øll Guds blessan epter-sækiast og ut-vegast.

2. Þau Børn og Hiu, sem eru gudrækeliga uppfostrud, og Christeliga uppfrædd, eru giarnan lijkleg

til ad ad afla þeirra Fedrum og Huss-
bændum storrar Gledi. Hversu
miøg kanntu ei, O Fader og Huss-
bonde! fagna i þijnu hiarta, þa þu
sier daglega i þijnu Huse, þijn Børn
og Hiw, hondla og handtiera med
þær jardnesku gafur, sem Gud hef-
ur unnt og gefid þier, lijka so
sem med nockrum himneskum Lifn-
ade? Jaa þegar þu liggur a þinne
Sottar sæng, hvad fyrir ein stor
hugsvølun vill þad ei vera þier, ad
þu þa af goodum og stadføstum
Grundvelle kannt vera fullviss, ad
þijner Pienarar eru Christi þien-
arar, og þijn Børn Guds Børn?
so kantu þa med stødugu Trunadar
trauste til þijns Guds fela þau i
hanns fødurlega Forsia og Vernd-
an, og med stærre Vissu vera þar
umm fulltrua, ad Gud mune blessa
þau eptir þinn Dauda.

3. Ei er annad betra Medal, med hveriu þier kunned ad skulld-binda ydar Born til ad elska og hlyda ydur, og ad ydar Hiw trulega utiertte sina Vinnu, enn þa þau eru velgrundud og uppfrædd i Guds dyrkun, og Guds Otte er innrættur i þeirra Hiortum. J þeirri meiningu talar Salomon i Ordskvida B. 10 Cap. 1. Sa viise Sonur mun gledia sinn fodur, nefneliga, þa hann veiter honum til-hlydelega Skylldu og Lotningu. Edur hversu getur þad ødruviisse vered, enn ad sa þienare, sem sier, at sinn Hus-bonde hefur annadhvert viisad honum fyrst Beginn til hinnar sønnu Nadar, edur og med Gudrækeligri Jdkun hefur enn nu fremur styrkt og stadfest þa medteknu Nadar gasu, vilie af fremsta megni stunda ad þiona siinum Herra

a mote þacklatlega, i hveriu sem hann orkar.

Þar fyrer meiga Foreldrar og Hus-bændur vita til vissu, ad þeim epter Riette og Sannsyne, ber med Astundan og nakvæmre adferd, ad idka sig og sitt Hus folk i Gudrækne; hellst þa þeir ysirvega þad Embætte, sem þeim er til-truad, og fyrir hvert þeir hliota ad giøra Reikning a hinum siidasta Dege; edur og þad Gagn og þau Not, sem þeir þar af sialfer ødlast.

VI. Hin siidasta Orsøk ma takast af þeirri margfølldu Olukku, sem von er ad koma a epter, þa menn forsoma slika gudrækilega Idkan i siinu Huse.

1. Fyrst riis af þvi alls-kyns Kiif og þræta a heimilinu, so þar af kemur innbyrdis Osamþycki milli heimilis folksens, so sem

milli

milli Husbondans og Huus-freyunnar, Husbondans og Pienarans, Forelldranna og Barnanna. Allt þetta verdur fyrirbyggt og hindrad, þa þeir þeckia DRottinn riett, og þiona hønum, so sem vera a, øllu fremur. Þvi hvar hann er dyrdkadur med hreinu og einlægu hiarta, þa er þar og sa rette Fridur; Enn hvar Gude er ei þionad, þar er einginn Fridur, helldur Hatur, Kijf, Strijdsinne og Sundurlyndi; Og er þad ei all lijtill Avinningur fyrir Sathan, sem er Mannkynsens høfud ovinur, og geingur i krijng, sem greiniandi Lioon, uppleitandi þann er hann uppsvelgt fæte, 1. Pet. 5, 8.

2. Þad sprettur og einnen þar af, ad yfirvalldid neydest til, eptir Laganna Strijdu, ad lata taka so margan af døgum, af þvi ad þeir

hafa ei vered uppalder i Guds otta, og þeim hefur verid leyft at fylgia sinum eigin vilia i Ungdæmenu. Þetta er nogu kuñigt af þeirri aumkunarlegri Ummkvørtun, sem so margir Glæpa menn framm-bera a Aftøku stadnum yfir þeirra Forelldrum og Hus-bændum, ad þeir hafe forsomad sijna Skylldu i þessu efne.

3. Hier af kemur þad lijka, ad so margt Heimilis folk lifer ølldungis illa og ogudliga, og steyper sier i allskonar Syndir og Vondsku, sem Lygi, Bloot, Hvijldar dagsens Vanhelgun, Dryckiskap, Saurlifnad, og þvijlijkt annad, allt eins og þeir menn væri nockrir ungir Dioflar og Andskotans Folk. Og i Sañleika, þa heimilis Folkid vijkur fra Gude, og giørir ecki þad goda, sem þvi byriar, þa yfirgefur Gud þa menn, og lætur þa ganga sinn veg, ad þeir giøra þad vonda, sem þeir eigi

eigi attu, ſo Syndin fær þar frijan Adgang, hvar Guds Dyrkun er burtu viken: Og epter Vanræktar Syndina kemur VondſkuñarSynd, þvi þa menn ei giora pad þeim byr-iar, ſtraffar hann þa ſoleidis, ad hann lætur þa ſialfa rada ſier, ſo þeir falla i herfelega Stor-glæpe. Nu a tijmum heyra menn þa almennu Kvørtun, ad Børn ſieu o-ſidlat og o-hlydin, enn Þionuſtu Folk latt og o-dyggt, og ad hverutveggia life i hneixlanlegu Framm-ferde; Vilium vier leita epter hinne riettu Orſok til þeſſ, þa munum vier finna hana fyr hia þeim yfirbodnu enn undir-geſnu. Þvi jafnvel þott þeir und-er-geſnu kunne eigi i þeſſu ad af-ſak-aſt, þa er þo an alls efa ſu ſtædſta Skullden hia yfirbodurunum og Huſſ-bændunum, med þvi þeir for ſomunarſamlega hafa frammfylgt þeirra Skylldu vid þa Undirgeſnu,

eige halldid Bæna a-kall med þeim, og ei helldur upp-frædt þa, sem þeim byriade. Þvi hvar hellst Gudræknennar Jdkan er ute-lokud af Husenu, þar plagar al-menniliga Dyrnar at standa opnar fyrir øllu Athugaleysi og Ogudrækne.

4. Forsomer þu Jdkun Gudrækniñar i þijnu Huse, þa giorer þu þig sekan i morde, jaa i Salar morde, sem er hid allra herfeligasta; Þvi þar ed Salirnar, eingvu sijdur enn lijkamer þinna Barna og Vinnu folks, eru þinne umm-hyggiu til truader, þa, sofrámt nockur af þeim fortapast sokum þinnar vanrœktar, hefur þu stora skulld i þeirra eilijfum dauda og Fyrir-dœmingu, og þeirra Blods mun verda krafid af þinne hende; So sem Jacob vard ad svara Laban til

sier

sier-hvers Saudar edur lambs, sem fargadist, 1.Mos.B.31, v.39. (af hönum var þess krafed,) so hlytur hver einn Huss fader ad svara Gude, og abyrgiast sier-hveria Sail i siinu Huse, ef nockur þeirra af hanns vanrækt hrapar i Fyrirdæmingu, og Gud vill kresia hennar af hanns Hende. Þijns Barns, þijns Vinnuhiuss blods vill Gud a þeim degi kresia af þinne Hende. Þar fyrir, vilied þier vera frijer fyrir blodi ydar Barna, þa upp-fostred þau i Drottins aga og umm-vøndun; bidied fyrir, og med þeim, og upp-fræded þau, etc.

Med þvi ad vier høfum vora Lærdoms Grein stadfest af heilagri Ritningu og med oraskanlegum Orsokum, þa vilium vier vijkia til hennar Idkunar.

## III. Cap.

## Þeir Yfirbodarar eru hier avijtader, sem giora sier i eckert O-mak og eingva Samvitsku umm gudrækeliga Huss-idkan.

Med þvi Vier siaum þa, ad þad heyrir Forelldrum og Huss-bændum til, ad þeir ei alleina sieu umm-hyggiusamer, hvernen þeir fyrer sialfa sig, helldur og einnen ad aller sem þeir hafa til-sion med, og einkum aller sem eru i þeirra Huse, mættu trulega þiona Drottne: So eru þar imot allir þeir yfirbodarar miøg so straffs verder, sem hverke giora sier þanka umm þad, hvernen þeir sialfer ottest Gud, og enn sijdur eru um-hyggiusamer ad hallda þar til sijnu Huse; Enn so sem þar er einginn Guds otte i þeirra Hiort-

Hiørtum, ſo er hann ei helldur i þeirra Huſum.

J ſtadinn fyrer Guds Þionuſtu, ſiai menn giarnan hia ſoddan Folke, allra handa o-gudleika og andvaraleyſe, ſo þeirra Hus eru eins ſem o-hrein Fugla bwr, full med vidurſtygd og Saurende: Um þvijlijk Hus kann madur at ſegia med Salomon: Þeirra Hus eru vegur til Helvijtis. Ordſqv. 7, v. 27. Þad er ſa breide og nærſte vegur ſem leider til eilijfs dauda og Fordæmingar. Soddan Folk, jafnvel þott þad vilie halldaſt fyrir gooda Forſtødu menn og Huſſhalldara, eru langt fra þvi ad þeir ſieu þad, med þvi þeir ſleppa þvi hellſta, ſem er, ad bera ummhyggiu fyrer þeirra Salum, og leiſa þar i mot, ad allſkyns vondſka og ogudleiki take yfir-hønd i þeirra Huſe, ſo ad þeim hverki mis-lijkar þad, edur finna ad þvij.

Jeg þore fullkomliga ad segia, ad þad væri betra, ad madur sette Barn sitt i eitthvert Pest-Hus, enn medal soddan folks, þvi o-gudleiki stijngur sier inn fliotara enn nockur Pest, af þvi hann brenner og saurgar sierhvern sem hann nalgast. Enn þa Pestilentia kann alleina ad deyda lijkamann, þa kann Syndarennar eitur ad fordiarfa bædi lijkama og Saal. Þar fyrer mætte madur mak-lega skrifa yfir soddan Huss-dyr, hvar inni Gudræknînnar Jdkun er for-somud, og Ogvudleike fer miøg i vøxt, þad sama sem almennt vlagar ad skrifast i Englandi a þær Dyr, hvar Husinn eru af Pestilentiu fordiørf-ud: Gud vertu oss nadugur!

Jeg er vissunm, at þeir eru margir Forelldrar og Huuss-bændur til, sem munu meina, ad þeir hafi nogsam-liga framkvæmt sijna skylldu vid þeir-ra þionustu folk, þegar þeir hafa þad for-

forsorgad med þess lijkamlegre naud-
þurst; Enn eg vil giarnan spyria
þessa ad, þo þeir syrgi fyrir sijnum
Børnum og hiwum alleinasta uppa
likamans vegna, hvad giøra þeir þa
meira vid þau, enn vid þeirra fienad?
Þa þeir einasta gefa þeim Klædnad
og laun, hvad giøra þeir þa meira
enn Tyrkiar og vantruader, (sem
ecke þekkia GUD) giøra vid þeirra
Børn og þienara. Syrgi þeir all-
einasta fyrir þvi hvernin þeir kunni
ad ut-vega sier Jardneskann erfing-
ia, enn giøra sier ecki omak fyrir
þvi, hvernin þeir kunne ad giøra
þann sama til Himna rijkes erfing-
ia, hvad lata þeir þa meira i tie sijnu
Barne enn Gydingar, sem ekki þeck-
ia Christum og hanns Evangelium,
lata i tie þeirra Børnum?

Þvijlijkir skulu vita, ad þad er ei
einasta þeirra skyllda, ad ala ønn
fyrir forgeingeligum lijkømum þeir-
ra,

ra, sem þeim tilheyra, helldur og einnin fyrir þeirra odaudlegum Salum. Enn so framt nockrer eru i þeirre meiningu, ad þeir hafe giort þad þeim byriar, þa þeir hafa gefid þeirra børnum og þionustu Folke Klæde og Fæde, og veitt þeim adra adstod i lijkamligum efnum, þa draga þeir sig sialfa a tailar med þeirra favijslegum þaunkum; þvi þeim ma þo til hugar koma, ad þeir egi at giora Gudi langt stærre Reikning fyrir allra þeirra Salir, þvi tapest nockur af þeim, sokum þeirra hyrduleyses og otrygdar, hversu þungur villde sa Reikningskapur ei verda? Hverin mundu þeir kunna ad svara, þa þeirra Barna og Þionustu Folks blods yrdi krafid af þeim.

## IV. Cap.

## Aminning til allra For-elldra og Hus-fedra, ad þeir sieu ummhyggiusuller fyrer Huss-Andakt og Gudrækne.

Þessu

Þessu næst ætti þad ad upphvetia allra Christelega Foreldra og Hus-bændur, ad þeir vijse sig umm-hyggiusamlega i þvi, bæde hvernin sialfir þeir og allt þeirra Hus skule þiona Drottne; þeir eiga med Josua ad giøra þessa alyktan: Jeg og mitt Hus, vilium þiona Drottne. Vilied þier ecke vera seker i Salartione ydar Barna og Þionustu Folks, og þau ecki skule veina yfer ydur i eilijfum ellde, þa þeinked þar umm vandlega, hvernen þier uppfræded þau i aga og umm-vondun til Drottens. Sierhver Hus-fader skyllde vera so i sijnu Huse, sem Hiartad i mañsens lijkama; Vidlijka sem þad meddeiler lijfe og lifande anda til allra limanna, so ai og einn Hus-fader ad giøra sier Omak, ad meddeila til allra limanna i sinu Huse þvi Andlega

lega lijfe. Fyrir eina støduga og riett hiartanlega alvarlega og heilaga Gudrækniś Jdkan a hans Hus ad vera ein lijtil Kirkia. Þvi hvar menn hallda Guds þionkan riett vid magt, þa verdur sierhvers Hus ad Helgidomi og Guds Huse. Þannig var þad hia þeim fromu Husfedrum a Nya Testamentesins tijdum, umm hveria sagt er, ad þeir hofdu Kyrkiur i þeirra Husum, so sem Philemon, Aqvila, Priscilla og Nympha, hverra hus voru kollud Safnader, bæde vegna þeirra Gudhræddu, sem voru i þeirra Husum, lijka og einnen vegna þeirrar Gudrækne og Þionustu, er framin var i þeirra Husum. O! hversu stor virding væri þad oss, ef vor Heimkynni yrde a vidlijkan hatt helldur kollud Sofnuder, enn almenn Hus, helldur

Guds

Guds Munsteri enn Manna hijbyle! Enn so ad slijkt kunne ad gagna ydur til frekare Nytseme, þa vil eg nockud fremur setia ydur fyrer Sioner, hvad sier i lage ut-kresiest af Forelldrum og Huss-bændum til Andlegrar og hiartnæmrar Huss-idkunar.

V. Cap.

## Umm þad ad madur giore Bæn med þeim er hann hefur i sijnu Huse, og hvad oss þar til skule knya.

Þad fyrsta, sem sier i lage utheimtist af Huss-Fedrum, er Bænen i Husenu. Hun er einn Partur af þeim hellstu Gudræknis styckium sem sierhverium Huss-Fødur med øllu sijnu Huss-Folke daglega byriar ad idka. Þvi a lijkan hatt, so sem hann er sem nockur Kon-

ungr, ad stiorna sijnu Heimiles Folke, so er hann sem Prestur, til ad upp-offra Gude med øllu sijnu Huse Bœnarennar og þacklætesens Morgun-og Kvølld offre. Þad hafa þeir Heiløgu Fedur oss til upp frædingar kostgiæfilega idkad, ad þegar þeir settu sig nidur (til Bw-stadar) a nockrum stad, þa bygdu þeir eitt alltari, hvar þeir a-kølludu Gud med øllu þeirra Huse. So giørde Abraham, Isaac og Jacob. David, jafnvel þott hann væri Kon-ungr, þa giørde hann þo, sem sa hell-sti og ypparsti, Bæn med øllu sijnu Huse; þvi so lesum vier umm hann: Þegar David hafdi fullkomn-ad at offra Brenni-Foornum og þacklætis Foornum, þa blessadi hann Folkid i DRøtt-ens Zebaoths Nafne, og kom

so

so aptur ad blessa sitt Hus. 2. Sam. 6, v. 18. (þad meinast eiginlega: Hann sneri sier vid aptur ad blessa sitt egid Hus-Folk) edur (so sem sumer utleggia þad) ad þacka Gude med sijnu HusFolke, og lysa Guds blessan yfer þvi.

I Nya Testamentinu þegar Postulinn skrifadi til Huss-Fedrunum umm þeirra Skylldu, setti hann þetta vid: Vered stadfaster i Bænenne. Col. 4, v. 2. Hvar med hann avijsar, ad þeir ættu sier i lage ad bidia i þeirra Husum.

Þad er sagt umm Cornelium, ad hann var Gudlegur og Gudhræddur med ollu sijnu Huse, og gaf Folkinu miklar Olmusur og bad alltijd til Guds. Post. Giorn. 10. Cap. v. 2. sem er ad skilia, ad hann hafe daglega beded med sijnu Hus-

Hus-Folke. Þesse Epterdæme eru af H. Anda uppteiknud til þess, ad vier a lijkan hatt skulum laga vor Hus. Enn so ad þier ennnu framar verded sann-færder umm þad, hvad storlega þier sieud skullds bundner til soddan Huss-Bænar, þa yfer-veged riettilega epterfylgiande Orsaker, sem ydur þar til knya. Þa fyrstu Orsøk tek eg af þvi sem sierhverium Hus-Fødur er tiltruad.

I. Er Huss-Folksens Salu hialp og riett Guds dyrkan hveriuin einum Huss-Fødur til-truud, hvad eigi a so ad skiliast, ad Husbændurner megi fyrer-skrifa þau Truar brøgd, sem þeir sialfer vilia, sijnu heimiles Folke, edur ad Bornenn og hiwenn sieu þar fyrir affokud og saklaus, þegar huss-bændurner eru sialfer villu-raf-ande og hyrdulauser; Helldur er su umm-

ummhyggia þeim a hendur falen, ad þeir skule grandvarlega gefa giætur ad øllum þeim, sem heyra þeim til, ad þeir rietteliga þione Gude, hallde hanns Bod-ord, og gange a hanns vegum. Ad slijkt sie þeirra Embættes skyllda, kunna menn auglioslega ad a-lykta af Løgmalinu; Þvi under þvi atti Hus-Faderinn, epter Guds Skipan, ad giæta þess, ad øll ung Svein-børn, so vel þau sem hann hafde keypt fyrer sijna penjnga, sem þau, er fædd voru i hans Huse, yrde umm-skoren. J þridia Guds Bod-orde er Huss-Herrum og Huss-bændum bodid, ad þeir ei einasta fyrir sialfa sig hallde heilagann Hvijldardag Drottens, helldur og einnen hallde sijnu Folki til hins sama. Drottenn segir: Þa skalltu eckert erfide vinna, hverke þu, þinn Sonur, edur Dotter,

Dotter, þinn þion eda þin Ambatt, etc. 2. Mos. B. 20, v. 10. Til þessa hefur Josua sitt heilagt Til-lit i þessum Texta: Jeg og mitt Hus, vier vilium þiona Drottne. Hann sagdi til Folksens: Utvelied hvad þier vilied, Jeg vil ecke hafa vid þad ad sysla, enn hvad mig og mitt Huss snerter, þa vil eg og verd ad siaı til, ad vier kynnum ad þiona Drottne. Af þessu er þad Fyrsta skinbarlega auglioſt, ad Huss-bændurner eigi ad draga Ummsorgun fyrer þeirri riettu Guds dyrdkun, og a lijkann hatt fyrir Sailum þeirra, sem eru i þeirra Husum. I hvert sinn þa þier er fædt Barn, edur þu hefur feingid nyann þienara i þitt Hus, þa seger Gud til þin, sem madurinn i Spamanns Lıkingunne, i 1. Kong. B. 20, v. 39. Geim

þenna

þenna mann, það er, gef giætur
að þinu barne, að þijnum þienara,
haf Sauler þeirra i godre At-huga-
seme: Fare þau illa, eda hrape sok-
um þijns Hyrduleysis i Fyrir-dæm-
ingu; þa skal þin Sail vera fyr-
er þeirra Sail, þitt Lijf fyrir
þeirra Lijf; og soleidis skalltu
verda dæmdur.

2. Huss-bændur kunna ecki ad seg-
ia, ad þeir hafe dyggelega framkvæmt
það þeim byriar, fyrr enn þeir hafa
dyggeliga brukad øll Medøl, sem
kunna ad vera hialpsamlig Sailum
þeirra, er þeim byriar ad svara til,
at koma þeim til Guds, og hanns
sonnu Dyrdkunar. Ef þar er nockur
einasti hlutur til, sem Forelldrar og
Huss-bændur hefdu kunnad ad giøra
vid þeirra Børn og ÞionustuFolk, og
þo forsomad þann sama, þa hafa
þeir þar i auglyst sig o-trua. Fyrir

þvi, þa þeir hafa fyrst, asamt þeir-
ra Heimilis Folke, giort sinar Bæner
til Guds, þa hlydnast þeir hanns vilia,
og giora þeirra Saalum stort gagn;
þvi GUD hefur tilskipad ad menn
skylldu bidia sam-eginlega. Þad er
nogu aug-liost af þeim maata, sem
sialfur JEsus kendi siinum Lærisv-
einum ad bidia med, i hverium aller
hluter a-hræra marga til samans,
so sem: Vor Fader: Gef oss i
Dag vort dagligt Braud, og
so frammvegis. So hafa og þeir
Christnu i þeirre fyrstu Christeligu
Kyrkiu giort þeirra Bæner sam-egin-
lega. Ege nu almeñeliga aller Christn-
er, sem eigi eru til samans i einu
Huse, epter Guds bode, ad bidia til
samans, hvad miklu framar ættu
Christner, sem eru til samans i sama
Huse, ad giora þad? Hver einn
Huss-Selskapur a, eingu siidur enn

einn

einn ſtor Selſkapur, ad bruka ſameginligt Akall til GUds. Og ei er þad alleinaſta GUds Skipan, ad menn giore ſijnar Bæner sameginlega, helldur til-færer þad og ſialfum Sailunum ſtort Gagn og Nytſeme. Þvi þa adſkilianlegir i einu Huſe ſamteingia þeirra Bæner, er þad Gude kiærara, og megnar meira hia hønum, enn þegar hver bidur fyrir ſig.

J þridia lage, finnum vier og ſo i H. Ritningu, ad GUds Folk hafe haft þann Sidvana, ad þeir hielldu þad alltijd ad vera beſt, ad þeir aller kiæmi til ſamans ad bidia, og ad þad munde meira at-vinna hia Gude, enn þegar hver ſierdeilislega bæde fyrir ſig. Þegar ad ſkiede Forþon fyrir St. Petri, i Poſtulanna Giørn. 12 Cap, 12. v. þa voru margir ſamanſafnadir i MariuHuſe. Hefdi þad verid eins gott, ad ødlaſt

þad þeir villdu, og hefdu þeir meint, ad Drottinn vor skylldi so vel laita sig til-knya ad frija Petrum af Fangelsinu, fyrir sierhvers þeirra Bæn sierdeilislega, sem allra þeirra samteingdar Bæner sameginlega, þa hefdu þeir alldrei gefid sig i þa hættu, ad samansafnast a þeirre Tijd, sem þeir þo giørdu. Þeir vissu vel, hversu stor Haiski þeim var bwinn, ef menn hefdu hitt þa ad giora þañig Bæn til samans. Vier kynnum audvelldlega, ef þad være naudsynlegt, ad inn færa hier mørg Skilrijke, ad þeir Christnu alltijd hafe haft soddan Idkaner, þa þeir þañig eru, einkum i þeirra storre Neyd og þrautum, saman-komner.

Þar fyrir stendur þessi Alyktan a føstum Grund-velli: ad Mautiñ ad bidia med, sem Guds Folk hefur ut-valed, og brukad i hørdustu Naudstijd, er fundinn, epter þeirra

meiningu, hia Gude sa allra þocknanlegasti og kroptugaste; Enn þad er ad bidia til samans, bædi i storum og smaum Sam-kvæmum.

J fiorda lagi, kann þad og til ad leggiast, ad þegar menn giora so hverier med ødrum siinar Bæner, ad þar med læra þeir ad bidia, sem ecki kunna ad giora þad alleina. Huss-bændurner eiga ad kenna þeirra Heimilis Folke ad bidia, eins og Christur kendi þad siinum Læri-sveinum. Enn hverleidis? mun þad skie alleinasta vid upp-frædingu? Vier kunnum ad læra fremur Bænareñar Edli og Andagipt, þegar vier heyrum hiartnæma Bænagiørd, enn þa oss er so nockud undervijsad umm Bænina. Barnid lærir ad tala, þegar þad heyrir adra tala: Og þa vier brukum soddan Christeligar Jdkaner fyrir sialfa oss, gefum vier ødrum upp-vakning ad bidia,

leggium þeim Ord i Munn, jai upp-
kveikium Epter-laungun i þeirra
Hiörtum til Bænarennar. Hver
er sai ei veit, sem einhveriu sinne
hefur reynt þad, hvernin eins Guds
Barns diarft og alvörugefid And-
varp hia Gude i Bænenni, opt
hefur giort hiörtu þeirra, sem vil-
iuger giora Bæn med oss, avkasa
og alvarlega til ad bidia.

2. Su önnur Orsök, sem ai ad knya
alla Forelldra og Huss bændur til
GUd-hrædslunnar Alvöru og Bæn-
rækninnar i Husenu, er þesse, ad
GUd vill, ad öll hendtug Tijd og
tækefære, sem Christner kunna ad
fai og odlast til ad bidia, sie vel af
þeim ad-giætt og ai sig sett. Þurfe
þessa Grein fremur ad stadfesta, þai
kann þad nogu liosliga ad giorast af
þessum Paals Ordum, hvar hann
vill, ad menn bidie i öllum
Stod-

Stødum, og bidie alltijd med allre Bæn. 1. Tim. 2, v. 8. Eph. 6, 18. Edur, epter Høfud-Textans hliodan, i allre hagkvæmre Tijd, og i øllu Al-liggiande, med adskilianligri Bæn, og allra handa Maata ad bidia, opinberliga, heimugliga, alleina, eda med ødrum, so sem tijdin og tækifærid leifer. Ecki vantar Huss-Fedurnar, so sem þeir nu umm Stunder eru, nockud til soddan hendtugleika, þar ed þeir eru i Sam-byli vid Sijna, og kunna þess vegna audvelldlegar ad koma saman, enn hiner, sem eru laangt hverier fraa ødrum. Og af þvi þeir hafa magt ad skipa og skicka þeirra Heimilis Folke, munu þeir þa kunna at segia, ad þeir hafi eigi hier til hendtugleika, edur sier-deilislegt tækefære? Hussens Velgeingne snerter þa alla; umm hana skulu þeir bidia

i Skortinum, enn þacka Gudi, þa hun veitist þeim. Tijdum er Kross og hrygd i Husenu, sem hittir þa alla, þar i mot verda þeir allir ad bidia. Til eru og Huss Synder, sem þeir aller til samans eiga i Bæninni aud-miuklega ad vidur-kenna og Aflats aꝛbidia. Hvad er meir sanngiarnlegt og riettvijst, enn ad þeir sem syndga til samans, lijde og til samans, og ad þeir vænti til samans vidlijkrar Blessunar af Gude, þeir og af-bidie hanns Straff sameiginlega, aꝛ-kalle hann, og þacke honum?

3. J Pridia maita aꝛ Christi Epter-dæmi ad upphvetia alla Foreldra og Huss-bændur til sannrar Huss-gud-rækni og Bæna aꝛ-kalls, hver ei einasta kendi þeim er honum tilhey-rdu, at bidia, helldur og bad hann aꝛsamt med þeim: enn þad voru hanns Lærisveinar. Paskalambsens byr-iade Heimiles folkenu sier i lage ad

neyta;

neyta; þar var til-ætlad eitt Lamb fyrer sierhvert Heimkynne. Vilied þier vita hverier verid hafi Christi Huss Folk, þa spyried, med hverium hann neytti Paska Lambsens? Pad voru hanns Lærisveinar: med þeim hiellt hann Bæn, Luc. 9, v. 18. Þegar hann bad alleina, voru hanns Læri sveinar hia honum alleina. Enn hvernin matti hann segiast ad vera alleinn, þar ed Læri-sveinarner voru hia honum? þessi er Meiningin: hann hafdi skilid sig fra Folksins Selskap, hann og hanns Lærisveinar voru i Einrume hverier med ødrum, og med þeim giorde hann Bæn. Og so vier allar hier upptaldar Orsaker til Gudrækilegs Bæna hallds kynnum saman ad draga; þa giætid þess, ad Christi Epterdæmi byriar ad avinna nockud hia hanns Epter-fylgiurum. Hafe Huss-

Fedur tijd og Orsøk ad bidia daglega med sijnu Heimiles Folke; og vilie GUd hafa, ad þeir skule alla tijd og toomstund brwka, og at henni vara taka; sieu Heimilis Folksens Saulir Huss-bændunum af Gude at hendur faldar, og þeir kunna eigi sijna Huss-stiorn forsvaranlega ad fram-kvæma aun Bænarennar Idkanar: Þa er þad øllum nogsamliga bevijsad, ad þad sie þeim af Drottne boded, og ad þeir Huss-bændur, sem eingva Samvitsku giøra sier hier um, syndgi storliga moti Gudi.

Til þessa, sem adur er sagt, vil eg leggia enn nu tvær Orsaker.

1. Hugleidid þo, For elldrar og Hus-bændur, þad mikla Gagn, sem menn almennt ødlast vid hiart-næma Hus-bæn.

2. Dagleg Gudrækin Bæna giørd i Husenu, er sa helgandi Sid-vani, med

med hverium Madurenn verdur til heilags Lijfernis upp=hvattur af Konunne, og Konan aptur af mann=enum, so ad þad eina verdur þvi ødru til blessunar og huggunar. A lijkann hatt verda og Børnin og Þionustu Folkid af þeirra Forelld=rum og Huss-bændum til Heilags og Gude þocknanlegs lijfernis upp=hvøtt; Jai, sialfra Hus bændanna Kall og embætti, Godts og eigur allar, og jafn=vel þeirra misser og Kross, verdur hier med helgad og blessad.

I þvi Huse sem meñ giøra dag=liga Bæn til Guds, verdur ei einasta allt helgad og blessad, helldur verdur allt þad Hus gud=hrædt. Um Cornelium lesum vier, ad hann hafi verid Gud=hræddur Madur, sem giørdi jafnan Bæn til Guds.

Nu med þvi hann hafdi þann idugliga Sid-vana, ad giora Bæn med sijnu Huss Folki, þa vard þad og, aun efa, sokum sama Sidvana, gud-hrædt. Sømuleidis sem þau Heim-kynni og Folk, sem van-rækir Bænena, er ad mestu leiti ogud-rækid, so verda og i þeim Husum, hvar menn plaga daglega ad akalla Gud, margra Hiortu vanen til saññarlegs Guds Otta. Abraham, sem var yfir-bodari, var af alwd bæn-rækinn, hafdi og þionustu Folk, sem akallade Gud. Þvi þeir Undergefnu eru optast all miøg hneigder til ad eptirfylgia sinna Yferbodara Epterdæmum. Og þegar Husbondinn soleides kostgiæfilega bidur med sijnu Folke, þa læra og hanns Børn og þienarar undir eins ad bidia.

3. Sier

3. Sier i lage duger og su dagliga Huss-bæn, til ad afvenda almenneligum Landplaagum, so sem þar til ma finna mørg Dæmi, bædi i H. Ritningu, og ødrum truverdugum Sagna bookum. Og jafnvel þott Guds Refsing hitte so vel, a stundum, hid bænrækna Hus, sem hid o-bæn rækna, þa þienar hun þvi sem allt annad, er fra Gude kemur, til hins besta, epter sialfs hanns naudarsamlegri Aviisan, sem sagt hefur: Aller hluter þiena þeim til gods, sem Gud elska, Rom. 8, 28.

Þar næst skylldu Christnir Huss-Fedur og Hussmædur lata sier til hugar koma þa miklu O-hamingiu, er almennilega fylger og finnst, hvar hellst sem Hus-bænin er forsomud.

1. Þvi er almenniliga so varid, ad hvar hellst menn giora eigi sijnar Bæner sameginliga, þar er lijtil Gudrækni idkud, sem, Gud betre! dagleg Reynsla allt of-mikid vitnar. Þvi hvar heyra menn, ad þeir, sem eru alvarlega kostgiæfner ad lesa H. Ritningu, edur lata upp-fræda þeirra Born og Hiu i Truarbrøgdunum, forsome Bæna akalled? enn hinna Hus, i hverium Bænen er vanrækt, eru Gryfiur, af hverium daglega utganga adskilianleger Glæpir og Lestir, og i hverium Gudræknin er sem jørdud og under footum trodin.

2. Forsomi menn Huss bænina, þar er øll Huss Stiornan Guds reidi og grimd under-orpen, sem Spamadurinn Jeremias auglyser, þa hann segir: Uthell þu þinni Reidi yfir Heidingiana, sem eigi

þeckia

þeckia þig, og yfir þær Kyn-kvijslernar, sem eigi akalla þitt nafn. 10. Cap. 25. v. Hvar med GudsReidi er so sem brennandi, og i hæsta trøppu gaungi skilen. O! hver kann ad standast fyrir slijkre heitt-brennande Reide? Fyrir, ad ut-hella Reidinni, skilst, þegar GUD lætur nockurn finna sina Reidi i stærstu Vandlætijngu. Og jafnvel þo þessi ord hliodi sem ein Ósk, eru þau þo bædi Spadomur og Bæn, umm þa hrædiligu Guds Reidi og Grimd, sem hann vissuliga vill ut-hella yfer allar þær Kynkvijslir sem eigi akalla hann. Þvi Spamadurinn giordi þessa Bæn til Guds, þar ed hann fyrer-framm sa vissa gløtun og undirgang þeirra Kyn-kvijsla, sem eigi a-kolludu Nafn Drottins; hann visse vel, ad GUD mundi an efa uthella sinne reidi yfir

slik

slik Hus og Heimkynne. O! ad allir Yfir-bodarar og Huss-bændur villdu alvarlega gaumgiæfa, hvad þad sie, sem Spav-madurenn hier oskar øllum þeim Kyn-kvijslum og Heim-kynnum, sem ecki bidia GUD, so ad þeir, med allre Kostgiæfne, kynne ad taka sier vara fyrir þvi ad forsoma so mjog naudsynlega Jdkan, og vera otta slegnir fyrir Guds brennandi Reidi, Jai Hel-vijti og þeim eilijfa ellde: þvi hvad er Helvijti annad, enn ad finna og lijda þvi lijka Gudz reidi og grimd?

Jeg vil nu aulykta þetta med fau-einum Spurningum, og svara uppa þær fau-ordt, so eg þar med komi i veg fyrir sumra manna Meiningar.

1. Nockrer kannske vilje so spyrja: hversu opt eigum vier med voru Heimilis Folki ad giora Bæn? Andsvar: dagliga. Þvi Frelsari vor gefur oss þad ad skilia i þvi Bænar Forme,

me, sem hann sialfur hefur kendt oss ad bidia med, þa vier bidium þann-veg: Gef oss i Dag vort dag-ligt Braud, þad er so miked Braud og Vidur-være, sem vier aa þessum degi þurfum. Og med þvij vier þurfum nockurs aa sierhverium degi, þa vill Frelsarinn ad vier dagliga skulum bidia þar umm.

2. Vantar ydur, Christner Huss-Fedur! ecki daglega nockud, sem þier giarnan villdud hafa? Annad-hvert vantar ydur sialfa nockud, edur ydar Børn, edur ydar Þionustu-Folk. Er þar ei daglega einhver Sjukdomur i Husenu, sem þier giarnan villdud ad batnadi? Erud þier eigi aa hverium degi Faare og Freistingum undervorpner? Dryged þier eigi dagliga Syndir i moti Gudi? Fyrir þvi hlytur Ydur ad vera hard-la naudsynlegt, ad þier daglega bid-

ied

ied og aakalled GUd, ad hann vilie koma ydar Skorte til hialpar, lækna ydarn Siukdom, vernda ydur fraa øllum Haaska, sem þier erud underlagder, styrkia ydur moti Freistingunum, og fyrergefa ydur allar ydar Synder. Vor daglegNeyd, Veikleike, Haaske, Freisting og Synd, ber ad tilknya oss dagliga at bidia. Þier niotid vissuliga Gudz naadar aa hverium Degi, so er þa riett og sanngiarnlegt, ad þier aa sier-hverium degi þackid Gude þar fyrir. Jaa i raun og sannleika, gefur ydur sierhver dagur nya Orsok og til-efne, ad bidia GUd og þacka hønum; Og þar fyrer skulum vier og daglega offra Gude Bænar og Packlætis offre.

II.) Annad Spursmaal Folks kann ad vera þetta: Hversu opt aa degi eigum vier ad hallda Bæn i voru Huse? J þad allra minsta tvisvar umm daginn, Kvølld og Morgun.

2. Mos.

2. Mos. B. 29, v. 38. 39. Þvi I.) kunnum vier ad kalla þad af Morgun-og Kvølld-offrenu, sem Gydingarner, under Logmaalenu, epter Gudz Skipan, aattu ad framm-bera. Og eru eigi Christner nu aa nya Testamente sins Tijmum eins vel sem i þui Gamla Testamenti skyllduger i tie ad lata þeirra Kvølld- og Morgun-Offur? 2.) Utkrefur þad af ydur Sannsynen. Þvij, lijka sem Guds naad endur-nyast hvern morgun yfer ydur og ydar, og hanns Miskunsemdar døgg fellur yfer ydur hveria nott; so egid þier ej helldur ad gleima ad framm-reida ydar Bæna og þackklætis offur fyrer þann GUD, sem aan Af-lats so naadarsamliga endur-minnist ydar.

III.) J þridia maata kynnu menn at spyria: aa hverre tijd umm Morguninn eda Kvølldid kunnum

um vier hendtuglegast ad hallda vora Huss-Bæn? Andsvar: Um þad kann eingin viss Regla ad fyrir-skrifast, sökum ymislegra Hluta, Erinda, og aisigkomulags i husenu, jai, opt oforvarendes Sysslana. Þo væri oskande, (so framt þad være mogu- ligt) ad Morgun-bænin yrdi aurla frammkvæmd, adur enn Folkid geinge til sinnar vinnu, þvi su tijd er hvad hendtugust fyrir heil- agar Jdkaner, þvi þa er Sinned hressast, og hellst frij fyrir verallds- ligum þaunkum og hindrunum. Þess væri og sömuleides ad oska, ad Kvolld-bænen skiedi aidur enn menn taka Kvolld-verd, vegna þess, ad margur hver fellur i Svefn og dof- inleika eptir Kvolld-verdinn, hvar fyrir þai veitir baugara, ad hallda Hugskotinu til hiartnæms Bæna aikalls.

Og med þvi ad vier hofum so- leidis

leidis hier upptaldar Spurningar ut-skijrt, so vilium vier og einnin svara til þess, sem hier i mote kynne sett verda.

VI. Cap.

## Hier svarast til þess, sem Meñ kynnu vilia setia i gegn, til ad motsegia Hus-Bœna Aa-kallenu.

I.

Sumer segia, þeir geti ecki bedid, vegna þess þeir viti eigi hvernin þeir egi at bidia.

Svar:

Ef þu finnur hia þier soddan veikleika, þa gef þig þo til fridar, þvi þar med attu ad lata þig leida til Guds Kraptar og mattar. Bid hann, ad koma þinum Breiskleika til hialpar med sijnum Anda, og kenna þier hvernen þu egir ad ut-

ausa

ausa fyrir honum þijnu hiarta i Bænenne; þvi hann alleina kann kenna þier ad bidia, og veita þier þessa himnesku Gafu.

2. Skemta þier alltid med þeirri hiartnæmri Ummþeinking, ad þu segjinsamlega gæter bedid; þvi so fliott sem þu finnur ad þu nockurnvegin getur fleytt þier sialfum til ad framfæra Bænena, muntu þvi betur voga ad bidia ausamt med þijnu Folki og Huse.

3. Fyrr enn þu skylldir van-rækia þessa so storum naudsynlega Skylldu, vegna þess ad þu fyndir þig o-duganlegann til til ad bidia; þa vil eg helldur raada þier, ad þu umm nockurn rumann tijma brwker einhveriar gudrækelegar Bæner, sem adrer hafa skrifad og saman-sett, þangad til þu kynnir fyrir Guds naad ad verda framar hæfelegur og diarfur til ad bidia sialfur.

II) Ad-

II.) Adrer kenna umm siin-um marg-folldum Embættis Syslunum og An-riike, ad þeir hafe ei so mikla Tom-stund, ad þeir geti dagliga halldid Bæ-na giordir med þeirra Heim-iles Folke. Svar:

1. Þess fleiri og stærri sem þiinar Syslaner kunna ad vera, þess meire naudsyn hefur þu med þiinu Folke, ad bidia GUd, ad hann vilie blessa þær; þvi hvad er allt þitt erfide og þianing fyrer utan Guds blessan? fat-nytt, jat eckert. Þu maatt vera viss umm þad, ad sat tiime, sem þu brwkar til Bæna giørdar, hvert sem þad er i þinu Herberge, edur og med þiinu Folke i Husenu, skal verda þiin-um Syslunum micklu helldur til Adstodar, enn til Hindrunar.

2. Ef þu forsomar ad bidia med þeim sem þier til-heyra, søkum þiins marg-

margfallda Annrijkis, þa vit fyrir vijst, ad þu ai-vinnur einn Eyrir, enn tapar heilu Hundrade. Þu setur þinnar ypparlegu og odaudlegu Sailar vel-ferd i hættu, mote þvi ad avinna fanyta Veralldarinnar nytsemi, sem annadhvert mun takast braudt fra þier, eda þu fra henni. O! ad þvijlijk Veralldariñar Børn villdu alvarliga leggia ai hiartad, þad sem Frelsarenn vitnar hier i mot, segiandi: **Hvad gagnar þad Manninum, þott hann ai-ynni allan Heiminn, og lidi topun ai Sailu sinne, Marc. 8, 36. v.**

3. Vanrækir þu søkum Veralldligra Syslana ad bidia med þijnu Folke, til þess þu þar med kynner ad ai-vaxta þitt Gods, þa vittu, ad þad gots, sem soleidis er aflad, er ain Blessunar; Þad godtz, vegna hvers Bænen er forsomud, er eckert

ert annad enn Blood=gots. So tak þier þa vara, ad þu eigi ſetier til ſijdu þeſſa þijna miklu Skyl= lldu, vegna nockurs þeſſ veralldlegs, ſem þier kynni ad hondum koma. Lattu og ei helldur þetta verk med hangandi hendi, framm i vedrid, og ſo ſem i Skinhelgi, verda framm= kvæmt; helldur audſyn þig i þvi einbeittan og al=vorugeſenn, og upporva þig, ad þad kunne ad ſkie med diarflegri Aſtundan. Hvad og ſo Poſtulinn meinar med þeſſum Ordum, Rom. 12. 11. ſegiande: Vered brennandi i Andanum, og þioned Drottne. Og þetta ai ad ſke:

1. Vegna þeſſ, ad ſoddan Bænir þocknaſt Gude vel; þær eru þau offur, ſem honum eru þæge= leg.

2. Þar næst hafa þvilijkar Bæn-ir Bæn-heyrslunnar Fyrirheit. Þess vegna segir Postulenn Jacob: Bæn þess riett-ferduga megnar mik-id, þegar hun er al-varlig, Jac. 5, v. 16. þad ord, alvarlig, þydir eginlega i Høfud-Textanum, eina upporvada, edur lifande giorda Bæn: Og þar med verd-ur bæde Heilags Anda Verkan, sem og einnen Bænarinnar ackefd utvijst, hvad og alleina giører þad, ad Bænin megnar hiaa Gude.

VII. Cap.

Umm þad, ad Hus-bændum byrie ad lesa H. Ritningu, med þeirra Heimiles Folke, og hvad þa ege at knya til þess.

Su ønnur Skyllda, sem wt-kresst af For-elld-rum og Huss-bændum, er

er su, ad þeim ber idugliga at lesa H. Ritnijngu i sijnu huse, bædi fyrir sialfum sier og sijnu Heimilis Folke.

Jafn-vel þo þesse Idkan sie adskilin fra hinne undan-farande, þa er þo su eina med hinne annarre nytsamleg, og fyrir þvi hendtar all-vel, ad þær sieu samanteingdar. Vier lesum, hvernin Prestarnir i þvi Gamla Testamentinu attu dagliga at kveikia a Lompunum, og veisa Reykelse, 2 Mosis B. 30, v. 8. So sem lamparnir þyda Guds Ord, so þydir og Reykelsi Bænina. Og eins sem Lamparnir attu hvern dag ad tendrast, og þar atti dagliga ad reykiast Reykelsi, so kemur þar af sa Lærdomur til vor, ad vier

dagliga ſamteingium Ordid og Bænina. Þvi, ſo ſem Poſtul=inn ſegir 1 Tim. 4, v. 5. Verda allir Hlutir helgadir fyrir Ordid og Bænina. Þetta, ad leſa og ad hafa umm hond Guds Ord, finnum vier ad vera bodid øllum Forelldrum i þvi gamla Teſt=amentinu; þvi ſo ſegir Drottin: Þeßi Ord, (þad er ad ſkilia Log=mals Ordin) ſkalltu leggia upp a Hiartad. Og þu ſkallt itreka þau fyrir þijnum Børn=um, og tala umm þau, þa þu ſitur i þijnu Huſe, og þa þu geingur umm farin veg, og þa þu leggur þig nidur, edur þu ſtendur upp. 5 Moſis B. 6. v. 67. Af þeßu ma ſkilia, ad Guds H. Ord egi koſtgiæfiliga ad

verda lesid i Husinu. Þad gamla Gydinga Folk hafdi so stora Ummhyggiu fyrir þvi, ad kenna þeirra Børnum Guds Ord, ad Historiu Skrifarinn Josephus jattar: Sierhver af oss, segir hann, sem er adspurdur um Log-maulid, kann audvelldlegar ad upp-reikna þad allt, enn sitt egid nafn.

J þvi Nya Testamentinu bydur Postulinn þad sama, med þessum Ordum: Lattid Christi Ord bwa rijkugliga medal Ydar. Ordit er opt i H. Ritningu tekid fyrir sialfan Christum, og þad ættum vier rækiliga at stunda, at Christur, þad verulega Ordid, mætti bwa i oss. Enn i þessum stad a fyrir Ordit ad skiliast þad skrifada Guds Ord, sem hier kallast Christi Ord, bædi vegna

þess, ad hann hefur sialfur inn-
stiptad þad, sem og, ad þad
höndlar mest umm hann. Og þai
Postulenn segir: Laatid Christi
Ord bwa at medal ydar, þai
er þad einslags Sam-lijkingar Orda
Til-tæki, tekid af þeim, sem bwa
aisamt hverier med ødrum undir
einu þake, og gefur oss tvo hluti ad
merkia:

1. Ad vier eigum at hafa Guds
H. Ord, so vel i vorum hiortum
og husum, sem i vorum Kyrkium.

2. Ad Guds Ord, sie oss, vegna
þess idugligs Lesturs og Jdkunar,
so al kunnigt, sem sai er byr i sama
huse med oss. Enn so eg fære þetta
til-bæriliga Embætte Forelldrum og
Hus-bændum nockud nær til Sam-
vitsku, þai vil eg alleinasta brwka
þar til tvær til-knyandi Orsaker.

1. Þai ydar Børn og hiu verda
kunnig i H. Ritningu, þai verdid
þier

þier þess helldur virdtir af þeim i ydar Huse. Þvi af henne heyra og læra þau eckert annad, enn ad þeim byrie ad hlyda ydur i øllu. Med ydar Skipan og Hootunum kunned þier ad sonnu, kannskie, awinna so mikid, ad þau kunna ad verda Augna þienarar, og syna sig, sem þeir er vilie þoknast moñum; enn þegar þau heyra Guds Hotanir og Skipun i hanns Orde, þa verda þau aafyst til trwrrar Þionustu. So være þad eckirt annad, sem ydur kyñi ad upp hvetia til ad lesa Guds Ord i ydar Huse, þa synest mier, ad þetta være noog, ad madur kynne ad hafa þess dyggvara Þionustu-Foolk.

2.) Eru nockrer til, sem søkum þess ad þeir hafa lesid H. Ritningu, enn adrer, søkum þess þeir hafa heyrt hana lesna, eru komner fra Rangtrunnar til Raadarinnar Stands. Þvi Truin kann ad verkast i oss vid Ordsens

Lestur, so sem vid þess Predikun. Augustinus, Christeligrar Kyrkiu Læri-Fadir, getur umm nockurn Ægyptskann Fanga og þræl, sem lifdi i einhvers Manns Huse, þar ed dagliga var lesid Guds Ord, ad hann hafi af þvi ordid um-vendtur til Christeligrar Trwar. Og i Sannleika er meiri Kraptur i H. Ritningu, enn nockrum ödrum bokum, til ad verka umvendan i þeirra hiørtum, sem hollðliga eru sinnadir.

Enn so ad slijkur Guds H. Ords Lestur kynni at hafa þess stærri Nytsemi, þa at-hugid þessar fakar eptirfylgiandi Raad-leggingar:

1. Fyrr enn þier fared ad lesa, þa upp-lypted ydar hiarta til Guds, og bidied med stuttre Bæn, ad hann, sem er Fadir liosanna, villde upp-lysa formyrkvud Augu ydar Skilnings, so ad þier

mætt-

mættud skilia þad þier lesed, og ad hann villde styrkia ydar Minne, ad þier dagliga kynnud ad endur-minnast þess: Og ad hann villde gefa ydur Viisdom til þess, ad þier mættud tilreikna ydur, trwa þvi, og medtaka þad er þier lesid, og ad hann villde med Raad sinne stiorna ydur til ad lifa epter þvj sama. Soddan bæn er hardla naudsynleg fyrer sierhvern þann sem vill lesa Guds Ord, þvi Postulinn Paull segir: ad natturligur madur skynie eigi þa hluti, sem heyri Guds Anda til, og hann fate þa eigi þeckt, þvj þeir egi ad dæmast a andlega vijsu: 1. Cor. 2, v. 14. Þad er alleina Guds Anda, sem hefur opinberad

oss Orded, ad kenna oss ad skilia þad, enn hanns kunnum vier ei ad vænta oss, nema alleina fyrir innilega Bæn.

2. Eigum vier ad lesa og heyra Orded med allre Gudrækeligre Virdingu og athugaseme, so sem þess Stora Guds Ord, med hveriu hann oss sinn Vilia skijrlega auglyser, til ad upp-byggia oss i hverskyns Raad og Gudrækne.

3. Þegar Ordid er lesed, a hver einn einkum ad taka vel mark a þeirre grein, sem annadhvert innebindur nockud sierlega merkiligt i sier, edur hann sialfan kann enn fremur ad a-hræra, epter hans eiginlegum Hattum, Gagne, og Hendtugleikum.

4. Þa madur heyrir edur les einhveria Grein af H. Ritningu, a hann ad virda og upptaka þad, sem hun være sögd til hanns sialfs. Med þessu moti kann hver og einn, ad verda

mikid

mikid upp-bygdur, af sierhverri grein i Guds Ordi.

## VIII. Cap.

### Høndlar umm þad,

## Ad Forelldrar og Husbændur egi ad lata siin Børn og Hiu læra Catechismum (edur, Christelegann Barna Lærdom) og hvers vegna þeir egi þad at giøra.

Enn framar er meira wt-heimt og krafid af Forelldrum og Hus-bændum, sem þeir eiga ad lata i tie þeim sem eru undir þeirra valldi, nefniliga, ad þeir þa einfalldliga uppfræde i riettrar Guds dyrdkunar Grundvelle, og þad heitir ad kenna Frædinn, þad er, munnliga ad uppfræda i Christeligra Trwar bragda fyrsta Grundvelle; hvar med sa, sem enn nw er wngur, kann med tijdinne betur koma

til ad þeckia Gud. Þetta var Hus-Fedrunum skipad i hinu gamla Testamentinu, so sem Drottinn siaulfur segir og vitnar i 5. Mosis B. 6, v. 6. 7. Þessi Ord, sem eg byd þier i dag, skalltu leggia upp ai hiartad, og þu skallt itreka þau fyrir þijnum Bornum, og tala umm þau þegar þu situr i þinu Huse, og þa þu geingur umm farinn veg, og þa þu leggur þig, edur þu stendur upp. Hvar i, med þessu Ordi Born, eru ei alleinasta Bornin meint, helldur og hiwin Husbændanna, þvi hia Hebræskum er vant, ad kalla Born, alla þa sem vier hofum yfir ad bioda.

Vier hofum þann Guddomligan Spaudom, ad Christi nafn skule ut-

ut-breida sig fra einni Kyn-
qvijsl til annarrar. Þvi so segir
Psalma Skaulldid David i Ps. 72.
v. 17. Hanns Nafn skal vara
æfinlega; So leingi sem Sool-
in skijn, skal hans Nafn verda
hia bornunum (eda, sem Orda
tiltæked hliodar) hanns Nafn
skal vara fra Fodurnum til
Sonarins. Ege nu þesse Spaa-
domur ad vera upp-fylldur, þaa
aa sierhver Fader med Christe-
ligri Upp-frædingu, at wt-skijra
Christi Nafn fyrir sijnum
Syni, so ad Christi Nafn kuñi
soleidis ad komast fraa Fodurnum
til Sonarins, fraa einni Kyn-kvijsl
til añarar. Og vijsar þessi Spaadom-
ur til Nya Testamentisins Lærdoms,
i hverium Forelldrunum er bodid,

ad uppfostra sijn Børn i Otta Drottins og A-minningu; Eph. 6. v. 4. edur, ad uppfæda þau med Undervijsan, sem Ordid eginlega hliodar. Pad hafa fromir Hus-bændur og Forelldrar alltijd giort. Þar fyrir hrosar Gud Abraham, sem adur er sagt, 1 Mosis B. 18. v. 19. So giørdi og David vid sinn Son Salomon, sem hann so kostgiæfiliga undirvijste, 1. Cron. 29. v. 19. Hid sama hafa þeir Heilogu i Nya Testamentinu haft ummhønd, sem rada ma af Postulans Ordum, er segir, Og þier sem ættud ad vera Læresedur med tijdinne, hafid aptur þorf, ad menn skuli kenna ydur, hverier ad sieu Uppbyriunar Bok-stafir i Guds Orde; og erud ordner þeir, sem

sem hafid þorf mioolkur, enn
ei hardrar fædu. Ebr. 5, v. 12.
Og i ødrum stad segir hann: Þar
fyrir þa vier latum pad Christi
Upp-byriunar Ord vid-
vara, Ebr, 6, v. 1. Þetta lætur
merkia, ad þeir Christnu aı þeim
tijdum hafe i fyrstunni haft fyrir
sig nockurs-konar Uppbyrian, edur
sierdeilis maata ad kenna munnlega
Lærdomsins fyrstu Høfud-greinir.
Og væri oskandi, ad allir Christnir
Forelldrar og Hus-bændur aı vor-
um tijdum villdu giøra sier Sam-
vitsku umm, ad laata þeirra Folk,
epter Catechismi goodri Tilvijsan,
i þeim sanna Lærdoms Grund-velli
upp-frædast. Þo ber þetta þar vid
ad giørast og hugleida:

1. Ad Hus-bændurnir giøri þetta
idugliga, nockrum-sinnum aı hverri
Viku,

2. Ad

2. Ad þeir i hvert sinn taki nockud lijtid fyrir sig, enn ei of-mikid; so eigi verdi þar med Barnanna og Hiwanna Skilningur rugladur, edur ad þau fau af þvi Leidindi.

Enn so ad menn megi þvi betur festa sier þetta i Hiarta, vil eg hier til-setia nockrar til-knyandi Orsakir:

Pa fyrstu vil eg taka af þeirri Nytsemi, sem ad eptir fylgir.

1. Sü upp frœding sem i tijd og tijma er af Forelldrum og Husf bœndum i tie lautin Børnum og Hiwum, til-reidir ad vijsu so þeirra Hiortu, ad menn meiga vona, ad þad verdi þeim til Gagns og Endurbotar, so leingi sem þau lifa. Þar fyrir segir hinn vijsi Salomon, i Ords kv. B. 22. Cap. 6. v. So sem menn venia hinn wnga

(edur

( edur sem þad heitir, so sem madur framm-leidir hann i Guds Otta ) so vijkur hann eigi frá þvi, þa hann er gamall ordinn. Eins og eitt Ker helldur leingi þeirri Lykt, er sá hlutur hafdi sem fyrst var i þad latinn; so er þvi og varid fyrir Mañeskiunne, ad þad sem hun i Ungdæminu hefur numid, helldur hun giarnan i Alldurdominum.

2. Þar næst er Christelig Uppfræding Ungdominum eitt merkilegt medal, med hveriu madur kann i framm-tijdinne ad halldast frá øllum Villu Lærdomi; þvi þau Børn, sem eru vel uppfrædd i þeim sanna grund-vølludum Lærdomi, eru vel ut-buinn og bryniud moti alls Villu Lærdoms hrædslu og háska. Postulinn segir: 1 Cor, 11, 19. v. Þar

hlyt-

hlytur ad vera Villu Lærdom-
ur; En þar hellst hann er, hefur
hann þann eiginleika, ad ut-breida
sig vijda; þar fyrir er og hønum
samlijkt vid Sur-deig af vorum
Saalu-hialpara. Hvernin kann
þaa madur betur ad hindra þann
falska Lærdom og Truar villur, enn
ad lata sijna Vidkomandi verda
vel upp-frædda i þeim sønnu Tru-
arbragda Høfud-greinum? Gefid
ad eins giætur ad þeim, sem so aud-
velldliga verda afvega leiddir med
folskum Lærdomi, þaa munud þier
finna, ad þad kemur af þvi, ad þeir
eru eige upp-byggiliga upp-fræddir
i þeirra Truarbrøgdum. Fyrir þvi,
so framt sem þier giarnsamliga vil-
ied eigi siaa, ad ydar Børn laati
sig villa med raungum Lærdomi,
þa kostid Kapps umm ad þau verdi
i Sannleikslins þeckingu vel grund-
vølllud.

3. J þridia Lage, kann Ungdoms-
ins Uppfræding i Guds Ordi, ad
verda hverium einum til enn stærri
Ad-stodar, til þess, ad hann kunni
med meiri upp-byggingu ad heyra
og nema þar opinberlegu Guds Ords
Predikun. Hvi Børnin verda þar
med þess betur hæf og hendtug, til
ad rann-saka og prosa þann Lærdom
er þau heyra, hvert hann sam-hliode
Christilegri Tru. Pad er oss fyrir-
framm sagt af Postulanum, ad ad
þeim sijdustu døgum mune
verda falsker Lærendur, er inn-
leida muni skadliga Tvij-dræg-
ne, 2. Pet. 2, 1.

Par fyrir skylldum vier vel yfir-
vega, þad sem oss verdur sagt af
Predikunar Stolnum, og eptir Post-
ulans Aminning, reyna alla hluti,
og hallda þvi goda. 1. Thess. 5,
21. v.

21. v. Hvad vier alldrei kunnum ad giora, nema vier sieum adur upp-frædðir i vorri sønnu Guds dyrdkan, oc sieum ordnir kuñugir i Guds Orde.

Fyrir þvi, egid þier, sem erud Forelldrar og Hus-bændur, ad giora eptir adur umgetnum Maata ydvart Embætti. Hversu fliott mundu þo ei þærmiklu Villur verda ad eingvu, sit rietta Guds Dyrdkan blomstrast, jai hanns þecking og Naad rijkugliga auglysa sig hia ydar Børnum og Hiwum?

## Pa adra Orsok til adur-tieds kuña meñ ad taka, af þeim marg-fallda Skada, sem fylg-er ai eptir Cathechismi, (edur Barna Lærdomsens) Forsomun.

1. Fyrir þad fyrsta, er Barna Lærdomsins Forsomun, upp-haf til þeirrar Van-kunnattu og andligs Blindleika, sem finst i Landinu. Þvi, so sem

so sem þar er Myrkur, hvar ljoosid vantar, so hlytur Van-vitskan þar vissulega ad finnast, hvar upp-frædinguna vantar.

2. Af þvi kemur þad og, ad i so mørgum Husum er framinn mjøg o-gudlegur og ugglaus Lifnadur; þvi hvar hellst sem Guds þionustu er eckert r:om gefed, þar framm-fer Syndin i fullkomnu Ohoofi. Hvar hellst þeckingarinnar Ljoos er ei upp-kveikt med Barna Lærdomsens Upp-frædingu, þar munu sannliga inn-smegia sier verk myrkranna. Hvar sem hellst menn tala eckert til Guds med Bæninni, eckert umm GUD med upp-frædingunne, þar munu þeir ad vijsu tala þad, sem Gudi er i mot, og øllum hans vegum.

3. Þetta er og Orsøken, hvar fyrir vier finnum so lijtinn ai-vøxt af naudarinnar medølum. Þvi ef Børn og ung-menni væru betur upp-frædd,

hefdu

hefdu þau betri þecking, enn þau nu umm stunder hafa, a Evangelij Leyndar-domi, og meiri Nytsemi af Ordsins Predikun. Reynslan syner, ad þeir kunna best ad muna eina Predikun, og leid-rjetta sig ept-er henni sem med Upp frædingunne hafa ødlast þann besta Grund-voll Trwar bragdanna. Pad Sædi, sem tijdlega er nidur-sad, fær optast hinn besta vøxt.

4. Þeir For-elldrar og Hus-bænd-ur, sem vanrækia og forsoma þvij-lijka upp-frædingu, færa so vel þeirra Børn, sem sialfa sig, i Fyrir-dæm-ingu. Pvi hvad er þeim Børnum og hiwum, sem hafa anad framm i sijnum Blindleika, vegna þess þau vantadi hia Forelldrum og Hus-bændum naudsynlega og tilbæreliga upp-lysingu i Guds Orde, hvad er þeim annad bwid, segi eg, enn ei-lijf gløtun? Er þad þa eigi sar-

græti-

grætilegt, ad so marger Forelldrar og Hus-bændur höndla so omiskunsamlega vid þeirra Börn og Hiw, i þvi, ad þeir ecki epter þeirra Skylldu uppfræda þau i Guds Orde og Christeligra Truar bragda Lærdome?

## Mot-mæle.

I.

Slijkri nytsamlegri og naudsynlegri Skylldu mæla sumir so i moti: Til hvers skulum vier lata vor börn læra Cathechismum, þa vier at hugum, ad þau i þeirra ungu arum kunna enn nu eigi at skynia þennan Salu hiallparinnar Leyndar dom?

Svar:

1. Enn þott Börnin kunni eigi so skilmerkiliga, medan þau eru a blautu Barns beini, sem a seinna, þa

þa þau eru kominn til meiri þroska og fleiri aura, ad skilia þennan Sáluhialparinnar Leyndardom; þa verdur þvi þo ei neitad, ad þau so mikid kunni ad skilia, ad þa þau hafa feingid málid, geti þau haft eptir þau Lærdoms Ord, sem þeim eru kend, og medtaka þetta Nádarinnar Sædi. Og synir þad dagleg Reynsla, ad slijkt duger þeim ei all-lijtt til Lærdoms Jdkana med alldrenum.

2. Sorgleg reynsla auglyser, adung børn, sem ei læra Barna Lærdomin, ad þa þeim fylgia árin, þroast þau i Synd og vondsku, hvar med þau verda framar o-viliug til ad læra þad sem gott er, jú jafnvel al-deilis motviliug. Viljed þier ecki i tijd og tijma undirvijsa þeim, þa mun Mann-kynsens Høfud-ovinur giøra þad; og af hønum kunna þau fliott ad læra. Þar fyrir hindred þetta, so miked sem ydur er møguligt, til

þess,

þess, ad Ovinurinn fai eigi ofmiog inn-sad hia þeim Ill-gresinu. Verid þo þeir fyrstu, og giætid vandlega, ad inn-sa hia ydar Bornum þvi gooda Sædi, a hinni fyrstu tijd, sem er su hin besta.

II.

Ef vier eigum daglega ad taka oss so mikin vara a þessari Gudrækninnar Idkan i voru Huse, sem þier standid hardt upp-a; þa hindrudum vier med þvi Vinnu vors Folks, og stædum i hættu umm vora Atvinnu og lijfs upphelldi, og yrdum so med þvi moti verri enn Heidingiar.

Svar:

1. Petta er alleina Sathans Sviksemi, hvar med hann helldur ydur hier fra: þvi þier megid vera full-

vissir, ad su tijd, sem þier med ydar hjwum brwkid til Gudræknīnnar Idkanar, mun ei hid allra minsta hindra Syslanir ydvarra hiwa, helldur miklu framar styrkia þær og blessa: Þvi ad aukast og aꝛ vaxtast, er su gaꝛfa Guds, sem hann vill gefa þeim, er hann ottast, og vard-veita hanns Bod-Ord. Segid þa eigi umm Gudræknīnnar Huss Idkan, sem Judas sagdi umm þad Salve (edur Smurningar Oliu), er Maria ut-hellti yfir Christi Fætur, Matth. 26, v. 8. Til hvers þienar þessi Spilling? Meinid þvi eigi ad þeirri tijd sie for-spilad og til onytiu sooad, sem er brukud til Guds dyrdk-unar og soddan heilags Verks, hvar til ydar Embætti skylldar ydur sem Hus-Fedur.

2. Hver sa sem med fri-vilia og aꝛ-seittu raꝛdi leggur undir høfud

þessa

þessa Gud-ræckninnar Idkan i sijnu Huse, hann kann snarlega ad leida Guds Bølvan yfir sina Biorg og Atvinnu, sialfann sig og alla Sijna. Lesid hvad Moyses setur ydur fyrir sionir umm þetta, i 5. Mosis B. 28. Cap. 15. og 20. v.

3. Setur nockur vijsad einn ein-asta, sem hafi lidid storan Skada og Af-dratt aa sinni Lijfs-biorg og upp-helldi, fyrir þa tid, aa hverri hann hefur ottast GUd, og hafst vid hann ad sysla? Þegar nockur Handverks Madur, edur Timbur-madur, skerpir sijna sliovu oxe, hvert hindrar þad hans verk, edur hiaalpar og hradar þvi? Gudræckn-innar Idkan er Hwssins Naud-synium og Syslunum framar til hiaalpar enn hindrunar. Þar fyr-ir megid þier fyllilega hallda fyrir satt, ad þader einginn Spillir edur verka tof, ad þier gefid ydur lijtin

tijma og hvijldarstund til ad ødlast GUds blessan, ain hverrar su þiaun-ing og O-mak sem bædi þier sialf-ir og Ydar Folk kann ad hafa, er forgefins og ain Nytsemdar, so sem segist i Psalm. 127. 1. v. hvar so stendur: Nema Drottinn byggi husid, vinna Verka-mennirnir for-gefins.

4. Laitum vera, ad þier hafid mist nockud af ydar biørg og nær-ingu, fyrir þann tijma, sem bruk-adur er til GUds Dyrkunar, so hafid þier þo eingva Orsøk ad idrast þess; þvi i þann stad, ad adrir med Martha mæda sig i mikilli Ummsorg, med mørgum veralldligum Sysl-unum, so hafid þier med Ma-ria ut-valid hid besta Hlut-skipti, Luc. 10, i þvi 41. og 42. v. Jafn-vel þott þu hafir þar vid tap-ad nockru litlu af þvi tijmanliga, þa

aj-vinn-

at-vinnur þu andliga Fiaur-siodu þier og þinum til Gagns og gooda. Hverſu hyggnir meinid þier ad þeir ſieu, ſem utvelia þad timanlega framar enn þad eilijfa, og med þeirra Saular tøpun koma ſier hatt upp i heiminum. O þier aumir menn! hvilijk Fawitſka er þad þo ei, ad þier giørid adra til Erfingia, enn ſt aulfa ydur arflauſa; og þier eptirlatid ydur rijka menn unum ſtuttan tijma, enn ſteypid ſialfum ydur i eilijfa Ør-byrgd.

## IX. Cap.

### Umm Sunnu dags Helgihalldid, hvernin þvi byrie ad vera varid i ſier hveriu Chriſtins Manns Hwſe.

Iſiorda mata ſomir þad Forelldrum og yfirbodurum, ad taka vara a

Sabbats edur Sunnudags Helgihalldinu; so ad sialfer þeir og allt þeirra heima Folk, og allir, er þeir hafa ad skipa og rauda yfir, helgi þann Christiliga Sabbats dag. Þetta er nu þryckeliga skipad i þvi þridia GUds Bod-Ordi, og hefur ei so miog sitt Til-lit til Barna og Hiwa, sem Forelldra og Husbænda, þvi þeim er bodid, ei alleinasta ad hallda Drottins Hvijldardag heilagann fyrir siaulfa sig, helldur og, ad þeir gefi giætur ad þeirra Bornum og Hiwum, ad þau og a lijkañ haatt giori þad; þvi þañig hliodar Bodordit: Sa sioundi dagur er Drottins þijns GUds Sabbats Dagur; a honum skalltu eckert verk vinna, hverki þu, Sonur þiñ nie Doottir þijn, og eigi þinn Þion

Þion nie Þionustu Kvinna.
2 Mosis B. 20. Cap. 10. v. Hier af er aud-sært, ad Forelldrum og Hus-bændum tilheyri ad hafa Tilsion med þeirra Børnum og Hiwum, ad þau i eingvann maata vanhelgi Sabbats-daginn, helldur halldi hann sem helgan Hvijldar dag.

Sunnu-dagsens edur Sabbats Helgi halldid er þar i innifalid:

1. Ad vier hvijlum ai þeim Degi.

2. Ad vier brwkum þessa Hvijld til Guds Þionustu.

Søkum þess, eru allir Forelldrar skylldir, ad bera umm sorg fyrir þvi, ad bædi þeir, og allir sem þeim eru ai hendi, halldi þennann dag helgan:

a Sem Hvijldar dag, og
b Sem helgann Hvijldar
Dag.

a.) Sem Hvijldar dag, ad þeir hvijli fra sijnu veniulegu Syslunar Erfidi. Nafned Sabbat, sem i þvi Hebræska Mauli þydir Hvijld, og þad ut þryckilega Forbod i þridia Bod-ordinu; Þu skallt eckert verk vinna, vijsar oss, ad þad sie Hvijldar dagur. Hvada Straff byriar þa ollum yfirbodurum ad hafa, sem berlega moti Guds Bod-ordi, hallda þeirra Folki a Drottinsdegi til dagligrar Umsyslunar erfidis? Þeir skulu vita, ad hvad hellst sem med þeirra Folks-erfidi verdur utvegad a þeim degi, ad þad er ogudlegur a bati, sem loksins verdur vissuliga til Skada.

b, For-

b.) For-elldrum byriar ad vera Ummhyggiusömum fyrir þvi, ad Folkid i þeirra Huse halldi Drottinsdaginn helgann, sem heilaga Hvijld, og snwi þeirri tijd, ai hverri þeir eru frai veralldlegum Sysslunum, til Guds Otta og Þionustu, og brwki hana til þvilijkra hluta, sem ai þeim degi ber ad hafa umm hönd. Þvi Sabbatsdagurinn er ei einungis þess vegna innsettur, ad vier og vort Þionustu Folk skulum hvijlast fra lijkamligu erfide, helldur ad vier ai þessum degi skulum þiona Gudi hugar-laitliga sier i lage. Þad getum vier skiled af þvi fyrsta og sijdasta Ordi i Þridia Bod-ordinu. Þarstendur i Upphafinu: Minnstu, ad helga Hvijldar daginn Og i mot Enda lyktinni: Drottinn blessadi Sabbats Daginn, og helgadi

hann; þad er, fraiskildi hann til soddan sierdeilis dags, sem hønum skylldi vera inn-vijgdur til hanns Gøfgunar og Þionustu. Enn so Forelldrar og Hus-bændur kynne þess betur ad giora þad er þeim byriar i þessum hlut, þa vil eg gefa þeim þessa Raid legging.

1. Siaid til, ad ydar Børn og Hiw sieu ydur samfara til ad heyra GUDs Ord, og lætid eingvan ann storra Naudsynia vera fra þvi heima, eda hindradann. Þvi þad er þad regluliga Medal, er sialfur Gud hefur helgad og inn-stiptad, til ad betra ydvarn Lifnad, og giora ydar Sailir hoolpnar. Þegar Jacob geck upp til Bethel, took hann med sier allt sitt Hus, 1 Mosis B. 35. 2. og 3. v. Þai Elkana for upp ad offra Drottni, for allt hans Hus-Folk med hønum.

um. 1. Sam. 1, 21. v. Aa lijkañ hallt ſkalltu laata þitt Folk i þijnu Huſi koma med þier til GUds Hus.

2. Epter ad ſu almennilega GUds Þionuſta er til enda, þaa kalladu ſaman alla þa ſem eru i þijnu Huſe, og itreka med þeim Predikunina, ſem þier heyrdud. Gior þad ſiaalfur, eda laat þann giora, ſem beſt hefur þar aa Skyn-bragd. Spyr ſo þann eina eptir þann annann, hvad þeir kunne af Predikunenni, og utlegg þeim þad enn fremur ſem þeir kunna. Soleidis var ſig vor hallt-lofadi Frelſari ad, vid ſijna Læriſveina. Þvi eptir ad hann hafdi prædikad, og var i einrwmi med þeim, ſpurdi hann: Matth. 13, v. 51. Skilldud þier allt þetta? Ber ſaman vid þetta þad ſem ſagt er hiaa Marco i 4 Cap. 34. v. Eñ ſierdeilisliga þaa lagdi hañ

þad allt wt fyrir siijnum Lærisveinum. Af þessu Christi Eptirdæmi ai hver einn Hus-Fadir ad læra, hvernin hann egi ad haga sier vid sitt Hus-Folk, þai þad er heim-komid fra þeim opinberlega Søfnude. Og af þessu kunned bædi sialfir þier, og þeir sem ydur tilheyra hafa mikid Gagn. Þeir munu vissulega betur gefa giætur ad Ordinu, sem er prædikad, þa þeir vita, ad þeir eiga ad giøra Skil fyrir þvi, med þvi ad verda spurdir umm þad er þeir hafa heyrt. Þad hialpar ydur og ydar Folki mikid, til ad skilia betur og trwa þvi sem Presturinn hefur prædikad, þai þær Ritningarinnar greinir, sem i Prædikunenne voru frammfærdar til ad stadfesta Lærdominn, eru i Heima hwsinu itrekadar, edur i Bibliunne eptir-sienar.

3. Framar til ad hallda helgann Sabbats Daginn, þa kunnid þier ad syngia Psalma med ydar Heimilis Folki; hvad, med þvi pad hefur verid tijdkad hia Guds Folki i gamla Testamentinu, er vidur-kvæmilegt og rjettvijst, ad Christnir menn i þvi Nya Testamentinu giøri hid sama kostgiæfilega, so vel i Kyrkiunne, sem i þeirra Heima-Hwsum. Po ecki einungis til Dægra styttingar, edur so sem annann veralldlegann Kvedskap, med haulf-volgu, jai, jafn-vel ijs-kølldu hiarta, sem sumra Sidur (þvi midur) er, hvar med Drottins Sabbats dagur er svijvirdeliga vanhelgadur, helldur ai þetta ad ske med alvarlegri og hiart-groinni Andagt fyrir Gudi. Vier lesum, ad pad hafi, verid hia Guds Folki gamall Sid-vani, ad syngia Psalma og Andlegar Vijsur Gudi til dyrdar i þeirra Husum, sem Psalma Skalld-

id ai-vijsar, segiandi: Menn syngia um̄ Glede og Sailuhjailp i Tiallbbwdum Rjettlaitra, Psalm. 118, 15. v. þad er, i þeirra Gud-hræddu Husum og Hybylum.

Vor Sailuhiailpari gefur oss til þessa eina Fyrir-myndan, þvij þad er sagt umm hann, ad eptir þad hañ hafdi neytt Paiska Lambsens, sem var i al-mennu Huse, hafi hann swngid Lof-saungin med sijnum Læri-sveinum. Matth. 26, 30. v.

4. Framar, ad menn halldi þess betur Sabbats-Dagin heilagann, byriar þeim ad lesa grein af Biblíunni, sem umm er talad i þessa Bæklings 7. Cap. edur nockra gooda Predikun, og adrar gudlegar Bækur, sem høndla umm Guds Otta.

5. Menn eiga og ai Sabbats. Deg-

Deginum ad bidia hver med ødrum, og er umm þad athugandi, sem ꜳdur er sagt, i Siøunda Capitula.

6. Naudsynin wt-krefur þad og ad Hus-bændurnir brwki nockurn part af þessum degi, til ad undirvijsa þeirra Fꜳ-froodu Folki i sønum Guds Otta og Catechismo. hvar umm talad er i þeim ꜳttunda Capitula.

7. Ut-heimtist enn nu framar af Forelldrum, ad þeir ꜳ þessum degi halldi Gudlegar Sam-rædur, og ad þeir sier i lage tale fyrir Bornum sijnum og Hjwum, umm gooda og nytsamlega Hlute, og þad þeir heyrt hafa af Prædikunenni. Þar sem sꜳ ꜳ-minning, sem Postulinn gefur oss, ꜳ hrærandi vor Ord og Samrædur, ꜳ vel ad hugleidast, þa ꜳ þad einna hellst ad skie umm Sunnudaginn. Eingin slæm Ræda

framm-

framm-fare af ydar Munni, helldur þar sem nockur er godur vegna Naud-þurftarinnar Uppbyggingar, ad hann gefi þeim nád sem heyra uppaa þad. Eph. 4/29. v. Þad sem hier segist til uppbyggingar, er ad yfirvinna þa sem enn nw eru aa þeirra vonda vegi, ellegar ad upp-byggia þa sem allareidu eru fraa honum viknir. Spaa-madurinn Esaias fyrirbydur oss, ad tala umm Sabbats Dagin vor siaalfra Ord. Es. 58, 13. v. (Hvad Lutherus so wt-skijrer, ad eigi finnist i þeim, hvad þu talar.) Med þessu meinar þaa Spaa-madurinn, ad vier eigi skulum einngis tala umm þaa hluti, sem eru veralldlegir, og ei meir þeinkia umm þad Jardneska, enn Kiærleikurinn og Naudþurftin wt-

heimt-

heimtir. So sem þai vor Ord eru fyrir-bodinn i þessari Meiniingu ai soddan degi, so er oss skipad ai honum ad tala umm Guds Ord, og þad alleina, sem tilheyrir Guds dyrd, og ødrum andlegum At-høfnum.

Enn so ad þier i þessari ydar Embættis Skylldu, þess helldur mættud med meiri Kostgiæfni hallda helgan Sabbats Dagin; þa siaiid vel til, ad einginn af ydar Heimilis Folki, brwki nockurn-part af þessum degi til Idiuleysis, fai-nytrar Lystisemi edur Leika, til ad stytta tijdina med. Eigi ai þessi dagur ad brukast til Idiuleysis, þvij hann er innvijgdur til heilagra Verka og Sysłana. Ei helldur til ad stytta ai hønum tijdina med slijkre Skemtan, sem inni-falin er i holldlegum og o-andlegum Forlystingum ; þvi Drottinn bannar oss hardliga, ad
vier

vier giorum þad ai hanns heil-
ogu dogum, sem oss er alleina
þocknanligt, Esa. 58, 13. Og
þad er viss Sannleikur, ad fai feingi-
ligur gledskapur, Skemtan,
og slijkur Tijma styttir, er oss meir
til Hindrunar i vorri gudligri þjoonk-
an, enn al-mennt Erfidi vorra virku
daga, vegna þess, ad þad dregur
Hjortun svikfamlegar frai gudrækil-
ligri Idkan, enn erfidid; þessvegna
helldur Augustinus þad betra (ef
illt skylldi vera) ad madur helld-
ur erjadi enn dansadi, umm
Sunnu-daginn, edur fremdi
adra þvijlijka Skemtan.

Mot-mæli:

Sumir vilja segia, og for-
svara þeirra Folk og Hjw, ad
vegna þess, þau hafi haft þwngt
erfidi

erfidi alla undan farandi Viku, þa meina þeir, ad menn mættu unna þeim nockrar lijtillrar Skemtunar umm Sunu-dag-inn.

And-Svar:

1. Sunnu-dagsins Hvijld, er sw besta og hag-kvæmiligasta Roo, og Skemtan, sem kann ad endurnæra Lijkamann, sem søkum þess sex Daga idugliga erfidis er Mætti sijnum ad fiær. Og væru þeir andlèga sinnadir, mundu þeir hvad allra mest gledja sijnar Sailir, med þvij ad syngia Drottni Lof, i-grunda þeirra rjetta Gledi, Heimkynni at Himnum, og endur-næra sig sialfa i þeim Paunkum, hvad Christus hafi giørt og lidid fyrir þa, og so-leidis hallda heilagar Samrædur, og kapp-kosta gudrækiligar Jdkanir.

2. Ef þier meinid ad sw lijkamliga Hvijld og Endurnæring sie naudsynlig ydar Hjwum sokum heilbrygdar, þvi unnid þier eigi þeim til þess nockrum tijma af virku døgum vikunar? Vilied þier helldur stela frꜳ Gudi nockru af þessum Degi, sem hann hefur til sinnar Þjonustu skickad og skipad?

GUd hefdi sannliga kunnad ad geima þꜳ Sex Daga fyrir siaulfan sig, og gefa oss alleina einn? enn so milldiliga og naudarsamliga hefur hann breitt vid oss, ad hann ætladi alleinasta fyrir siaulfan sig einn, og unnti oss Sex til vors Erfidis, og vier vilium þo vera so o-þacklꜳtir, ad giora honum Af-dratt i þessu, og ræna einum parti af þeirri Tijd, sem hann hefur ætlad siaulfum Sier, til vorra Þjenara Skemtunar. Er þad ei ad ræna GUd sijnum Rjette?

X. Cap.

X. Cap.

## Forelldrar og Hus-Fedur eiga so ad lifa, ad allir kunni ad taka sier Dæmi og Eptir-myndan af þeim, ad lifa eptir.

Ad sijdustu er vitanligt, ad af Forelldrum og Hus-fedrum wt-heimtist ad þeir færi heilagann og riett-vijsann Lifnad, so ad þeir eptir-laati Børnum sijnum og Hjwum Gudrækninnar og Fromleikans Epterdæmi, ad þeir segi eins og Gedeon til sinna Eptir-fylgiara. Horfid aa mig, og giorid vidlijka. i Domara B. 7, 17. v. So giordi Abraham, sem Gud sialfur umm hann vitnar, segiandi: Eg veit ad Abraham muni biooda Børnum sijnum, og Husi sijnu epter sig ad vard-veita Vegu Drottins, 1. Mosis B. 18, 19. v.

Af

Af þvi er ad rauda, ad Abraham villdi so gainga undan sijnu Hwsi, ad hann vijsadi þvi hvernin þad skylldi vardveita Drottins vegu, og fylgia honum eptir. Josua vitnar og umm sig i þessa Texta Ordum. Jeg, og mitt Hus, vjer vilium þjoona Drottni, Jos. 24, 15. v. Þad er, hann villdi vera Epterdæmi sijnu Hwse til Gud-rækni og Fromleika, og ad hanns Hws-Folk skylldi eptirfylgia hanns goodu Eptir-dæmi. David er sømu Meiningar, þa hann segir: Jeg vil framm-ganga i Hiartans Fromleika i Huse mijnu, Psalm. 101, 2. v. Þad er, hann vill med heiløgu og lastvøru Lijferni gainga fyrir sijnu Hws-Folki, ad þad mætti taka af honum gott og gudrækilegt Epterdæmi.

Enn so ad Forelldrar og Hwsbændur verdi enn framar til þessa

upphvattir, þa vil eg enn nw framm-
setia nockrar audsynilegar Orsaker,
sem þar ættu til þess ad knya.

I. Vited, ad menn gjæta ad ydar
Lifnade, so sem þeirra sem eru ann-
arra yfir-bodarar. Ydar Børn og
Hjw taka ydar Epterdæmi fyr-
ir Reglur ad eptirfylgia, og
þar fyrir byriar ydur ad vijsa þeim
Christelig og Gudrækin Epterdæmi.
Pad er sa visse Salomon talar umm
þa Synd, sem einhver yfirbodari
kann ad vera hneigdur til, þegar,
segir hann, Herrann hefur Lyst
a Lygi, þa verda allir hanns
Þjenarar o-gudlegir; Ords-
kvida B. 29. 12. v. kann i Sannleika
ad segiast umm allar Syndir: þegar
Hus-bondinn i Hwsinu blootar og
sver, lifer i Dryckiuskap, vanhelgar
Sabbats Daginn, edur drygir þvi-
lijka Misgiørninga, þa annad-hvert

giøra

gjøra hanns þienarar eins, edur i þad minsta kunna þeir fljott læra ad gjøra hid sama. Þvi Eptir-dæmi yfir-bodaranna megna mikils hiaa þeirra undir-gefnum, hvert helldur þad eru Dygdir edur Lestir. Þeir laugu vilia gjarnan breita epter þeim haun, og feta i þeirra Fot-spor. Hvad mun vera al-mennara, enn ad vondir Forelldrar hafi vond børn, og o-gudlegir yfirbodarar o-gudliga Þjenara? Og er þad ei ad undra, eptir sem menn plaga ad segia: sem Herrann er, so hefur hann og Sveina til; og so sem hiner gømlu kveda fyrir, læra þeir wngu eptir; edur, eptir þvi sem Abootinn kvedur, dansa Mwnkarnir. Hversu var-eygdarsømum byrjar þaa ei Forelldrum og yfir-bodurum ad vera, i þvi ad frammleida sitt Lijferni lastvarliga og gudrækilega? so ad þeirra Børn og Hjw siaai ecki nie merki hjaa þeim nockud

nockud osidsamlegt edur hneixlanlegt, sem þau kunni eptir ad breita, og af þvi hrapa i eilijfa glotun.

2. Sie ydar lifnadur riettur og gud-rækilegur, þa mun hann orka þess, ad ydar Born og Hjw munu ottast ydur og virda. Þvi Guds Jmynd, sem innifalin er i sonnum Heilagleika og Riettlæti, ber slijkan Gofugleika og Tign a sier, sem kann ad koma odrum til ad veita oss Lotningu. Ef þier þar fyrir viljed med David frammganga rækilega og med hreinu Hjarta i ydru Huse, og med fullum asetninge frammvijsa sialfa ydur, sem Fyrirmyndun alvarlegrar Gud-rækni; þa munud þier med þvi odlast Virdingu og Hollustu af ydar Bornum og Hjwum. Þvj hver mig heidrar, segir Drottinn, þann

vil eg heidra; 1. Sam. 2, 30. v. Pad er, eg vil giora þad, ad adrir halldi hann i Virdjngu. Eg jata, ad sumir eru vanvirdtir fyrir lastvart og gudrækiligt Lijferni; þo vegna þess ad þeir giora sig Virdingar verduga, verda þeir þo af morgum virdtir og vel metnir: þvi meiri Vegsemd er i hinni minstu Guds Nad, enn øllum Jardneskum Heidri. Fyrir þvi þw varst so dyrt metinn fyrir mijnu auglite, varstu vegsamlegur, sagdi GUD umm sitt fyrir-litna Folk. Es. 43, 4. v. Par fyrir verda þ:ir Forelldrar og Hus-bændur, sem fyrir sinn gudrækilegann Lifnad og Ummgeingne eru mikils metnir i GUds Auglite, og so virdtir af þeirra Bornum og Hiwum; Enn ai hina sijduna munu þeir Forelldrar og Hus-bændur,

ur, sem vegna sijns vonda Lifnadar og O-gudlegrar Umm-geingni, eru lijtils virdtir i Ollds Augliti, og verda fyrirlitnir af þeirra Undirgefnum. Þvi þai Born og Hiw siai, ad þeirra Forelldrar og Husbændur liwga, stela, sveria, æfa Dryckiskap, yfir-troda Sabbatsdaginn, og drygia fleiri soddan Syndir, hvernin munu þau þai verda viliug til ad heidra og virda þai? Þad sem i einum stad er sagt umm Jerusalem: Allir, sem heidrudu hana, for-smai hana nw, vegna þess þeir sau hennar Blygdan; Jer. Harma Gr. 1. 8. v. (Þad er, ad hwn var nakin af øllum Gudlegleika). þad hid sama mai heim-færast til allra hyrdulausra og o-gudligra Forelldra. Þeir sem heyra þeim til, ættu med riettu ad virda þai, enn hafa Orsøk ad fyrir-lijta

þai, af þvi þeir siai þeirra Blygdan. Og þetta er efalaust ein af Hofud-Orsokunum, hvar fyrir Forelldrar og Hus-bændur eru so lijtils metnir og virdtir af sijnu Heimilis Folke.

3. Vid Syndina lodir þad Edli, ad hvar hellst Faderinn edur Yfirbodarinn i Husenu, er giarn ai ad sveria, bloota, drecka, lifa i Ofneytslu, forsimai þai sonnu GUds dyrdkun, og so framm-vegis, kann hann med slijku vondu Eptirdæmi, sem fliotliga kveikir annad jafn illt af sier, ad flecka heila Hwsid, Bornin og Hiwin. Fyrir þvi er slijku eigi o-riett samanlijkt vid Spitelsku, sem snarlega kann ad wt-breida sig yfir allt Hwsid. Og þad er hverium einum augliost, ad i þess stærra aliti sem madur er, þess stærri virdast hanns Aa-virdingar. Þai einhverir hiwanna i hwsinu yfir-siest nock-

ud, þa, er það virdt, sem til Dæm-
is, eitt brialad Vasa Sigur verk,
sem dregur þann alleina a tailar
sem það a; enn hvad helst sem
Hus-bondanum verdur a, þa er
það aulika sem Stunda Klukka i
Hwsinu, er geingur raungt, og vill-
ir alla þa sem þar eru inni. Hversu
Ummhygginsomum byriar þa ei
Forelldrum og Hus-bændum ad
vera, til ad gefa vel giætur ad siin-
um Lifnadi og Embætti? so þeir
eigi fordiarfi og spilli siin Børn
og Hiw med vondum Epterdæm-
um.

4. Hvad hiailpar það Forelld-
rum og Husbændum, ad þeir lata
siin Børn og Hiw læra ad ottast
GUd, og gainga a hanns vegum,
þa þeir sialfir lata i liosi so litla
Gudrækni i þeirra Hegdan og Fram-
ferdi, helldur þvert a mot færa
gailaust, offtovafullt og ogudlegt

Lijferni eptir Veralldarinnar Ven=
iu? þvi so sem þad er vijst, ad Lær=
domur og Kenning lifnar og kviknar
vid good Eptirdæmi, og færir
af sier mikla Nytsemi; so giora
hvert i moti vond Eptirdæmi allt
þad daudt og til einskis, sem good
Upp=fræding kynni gagna til, so hun
getur hverki veitt ai=vøxt nie verkan.

Fyrir þvi hlytur sai Fadir og Hus=
bondi, sem lætst straffa Synd og
Vondsku hiai sijnu Folki, ad vera
sialfur frij fyrir somu Lytum; þvi
annars kynnu menn ad segia: Þu
hræsnare, drag fyrst wt bjalk=
an wr þijnu Auga, og siaidu
sijdan til, ad þu fæer wt=
dregid ognina wr þijns Brod=
ur auga. Luc. 6, 42. v.

Hann verdur og ad fordast med
mestu varwd, allar for=liootar og
hneixlanlegar Syndir; annars kañ
Barnid

Barnid segia: Fadir miñ straffadi mig fyrir þad eg skrøkvadi, eñ hañ brwkar þo sialfur Muñ-eida. Og þienarinn: Husbondiñ straffadi mig fyrir Dryck-iuskap, og hann er sialfur af-giarn.

Søkum alls þessa, ef þinn Huss agi og Aminning a ad færa nockurn af-vøxt, þa verdur þu ad minsta Kosti, ad vanda so þijna Breitni og Umm-geingni o-straffanlega, ad þu siert ei sialfur sekur i þeim Lostum, sem þw af-vijtar þijn Børn og Hjw fyrir; þvi annars muntu leida Dauda doom og Fortøpun yfir sialfs þijns

ENDA LYKT.



# Stutt Inn-tak

þess
Salu hiaalpliga Truar-Bragd-
anna Sannleiks, i sinni riettu
Rod, fyrir
Ung-menni og Fa-frooda.

I.

Sa einaste og sanne GUD er i þrimur Personum, Fadir, Sonur, og Heilagur Ande.

2.

Þessi þrij-eini GUD hefur skapad alla Verolldu, og eins uppe-helldur henni og stioornar enn nw.

3.

Aller Einglarnir voru af GUdi skapadir godir og heilagir, enn nockrer fiellu vegna sinnar O-hlydne fra GUdi, þeir ed kallast Dioflar.

4.

Madurinn var og skaptur af Gudi, an Syndar, eptir Guds Mynd, til ad þioona hønum. 5.

5.

Þessi GUds Mynd var innifalin i nockre Samlijkingu vid GUD; edur i sønnum Vijsdomi, Riettlæti og Heilagleika.

6.

I þessu Sakleysis Standi var Madurinn sælu-hoolpinn; af því hann lifdi i For-einingu med GUde, sem er sa Ædste Goode.

7.

Enn vorir fyrstu For-elldrar, Adam og Eva, lietu Diøfulinn svijkia sig, til ad snwast innvortis i Hiartanu fra GUdi, og wt-vortis ad eta af þeim forbodna Tries Averte.

8.

Fyrir þvi tøpudu þau GUds Mynd, i hverrar stad kom Diøfulsins Mynd, edur Lijking med þeim Guds Ovine: Skilningurinn vard

formyrkvadur, Viliennfra=snwinn, og o=duganlegur til hins Gooda, enn tilhnegianlegur og dugligur til alls Ills.

9.

Vid þad topudu þau þeirra sælu=hiælplegu Samkvæmi med Gude, fellu undir Guds Reidi, og urdu sek i tijmanlegum, Andlegum og eilijfum Dauda.

10.

Nu, af þvi Adam og Eva er sw Root, af hverri allar Manneskiur hafa þeirra Uppruna, þa hafa þessir fyrstu Forelldrar getid Børn eptir sinni Mynd, og aisamt med mann=legri Nættwru inn rætt Syndir og Daudann i alla sijna Eptir=kom=endur.

11.

Vegna þess vantar alla Menn af Nættwrune Guds Mynd, þann medskapada Vijsdom og Heilagleika; enn i þessstad fædast þeir med Upp=runa Syndinni, andlega blindir, van=helgir og mot þrooanlegir.

12. Af

12.

Af þessari medfæddu Uppruna Synd wt-slioota allar gioranligar Syndir, i Hug-renningum, Girndum, Ordum og Giordum.

13.

Sokum þessa eru þar allar Mañeskiur i þessu ban-væna Syndarinnar Til-standi, undir Guds Reidi, sekar timanlegs, andlegs og eilijfs Straffs.

14.

Fra soddan eilijfri Eymd gat eingin Skepna biargad oss.

15.

Enn GUD, sem frar Eilijfd sar þessa Mann-kynsins allra stærstu Neyd og Eymd, hefur, af o-forþientum Kjærleika, hrærst til inneligrar Med-aumkunar, og ar lyktad, ad senda ollum Monnum sinn ein-getna Son, fyrir Frelsara.

16.

Þessi Frelsari, sem heitir JEsus Christur, var Ver-olldunne lofadur strax eptir Synda Fallid; og hanns bitri og blodugi Daudi var i þvi Gamla Testamentinu teiknadur og fyrir-myndadur med margra þusund Dyra Foorn-færjngum.

17.

Loksins i Tijmans Upp-fyllingu var þessi Guds eilijfe Sonur, fyrir H. Anda Yfir-skygg jngu, getinn aff Syndar, og fæddur i Heimin af sinne Moodur, hinni helgu Jung-frw Marju.

18.

Þessi vor blessadi Endur-lausnari, hefur þvi i einnri Personu, tvær Nattwrur, Guddomlega og Manndomlega, so hann aisamt er GUd og Madur.

19.

Eptir sijnu Embætti, er hann sa einasti Medal-gaungari millum Guds og Manna, vor ædsti Kenni-madur, Spaa-madur og Konungur, i tvoføllldu Stande, Nidur-lægjngar og Upphafnjngar.

20.

Med sijnum heilaga Lifnadi og fullkomnu Hlydni hefur hann i vorn stad Logmaalid uppfyllt; med sinne bitru Pijnu hefur hann wt-stadid Straffid fyrir oss, og fundid til Logmaalsins Bølvunar, bædi a Saalu og Lijkama, tijmanlegs og eilijfs Dauda, vegna vorra Synda, sem honum voru i GUds Domi til-reiknadar.

21.

Med þessari sinni Hlydni og Pijnu hefur hann stillt til Fridar GUds Riettlæti, forlijkad oss vid GUd, af-rekad oss Frelse fra Synd-

inne og ollu illu, aufamt Riett til Sam-einingar med Gude, og alla Saaluhiaalp sem þar af kemur, og þannig alldeilis fullkomnad þad mikla Endur-lausnar Verk.

22.

J Grøfinne var JEsus ei leingur eptir sinn Dauda, enn til þess aa þridia Degi, þaa Fadirinn uppvakti hann fra Daudum, og hann siaalfur upp reis med storum Sigurs Krapte yfir siinum og vorum Ovinum, aug-lysande, ad hann hefde fullkomliga vor vegna betalad fyrir Syndina.

23.

Eptir Uppriisuna er Christur upp-stiiginn til Himins, og hefur sett sig hiaa Gllds hægri Hendi, hvar hann bidur fyrir oss, og sendir oss sinn Heilaga Anda, so ad hanns

hanns wt-vegada Saulu-hialp komi oss til gooda.

24.

Sai H. Ande kallar alla Menn alvarlega til þessarar Saulu-hialpar, og verkar kroptuglega med Naidar Medolunum, Ordenu og þeim tveimur Sacramentum, enn vijsar aisamt einn vissan Maita og Adferd, hvernin Menn ødlast kunni þai af-rekudu Saulu hialp.

25.

Þessi Maiti kallast Saulu hialplegur Maiti, og er innefalinn i sannri Umm-vendun til GUds.

26.

Umm-vendunarennar Partar eru tveir: Angur og Trwen.

27.

Angur og Tregi er, ad þeckia riett af Løgmaulinu sijna Naittwrlega Spillingu og Gioranligar Synd-

Synder, ad finna saurt til þeirra, og al-varliga ad hata þær.

28.

Af slijkri sialfs sijns Eymdar Til-finningu framm-kemur, fyrir Evangelium, Trwarinnar Epter-laungun til GUds Naadar i Christo.

29.

Þessi Trw wt-breidir sig eptir sijnum Frelsara, og umm-fadmar med storri Eptir-laungan hanns dyrmætu Forþienustu og Verd-skulldan, sem sinn einasta Saaluhiaulpar Grund-voll.

30.

Sømu Trwar rietta Edli og Eiginlegleiki er, ad hun strax auglysir sig verkandi i Kiærleikanum til GUds og Naungans, aisamt i Hiartans dagligri Hreinsan.

31. Hver

31.

Hver sem þar ecki mot-stendur Heilags Anda Raad, helldur lætur sig leida til þessa Saalu-hiaalpliga Maata; hann upp-vaknar af sinum andliga Dauda, endur-fædist til eins nys Lifnadar, ødlast aptur þaa typudu GUds Mynd, nytt Lioos i Skilningnum, nya Girnd og Krapt i Viljanum, eitt ummbreitt Sinne og Hiarta-lag. Hann riettlætist, þad er, klædist med Christi Riettlæti, frijast fraa Syndarinnar Skulld og Straffi, þvi þaa er og einnin Syndarinnar Herradæmi burt-tekid.

32.

Hann sam-einist med Thrwnni aa ny vid GUd, og ødlast Hlut-skipti i øllum þeim o-metandi Naadar-Gaafum, sem Christur hefur wtvegad.

33. Hann

33.

Hann er nw ordinn sannarlegt og sælu hialpligt Guds Barn, og hefur lifandi Von um Himna Rijkis eilijfa Arf-leifd.

34.

Nu fær hann guddomliga Upplysing og Krapt, bædi til ad yfirvinna þad illa, (so hann syndgar ei fremur af ai-settu Raadi moti Samvitskunni) og til ad eptir-fylgia þvi gooda af ollu Hiarta, so hann leitar nw iduglega Guds Rijkes og hanns Riettlætis, og framm-geingur ai Jordunni med himnesku Sinni, og so sem fyrir Guds Auglite.

35.

Hann hefur sanna Huggan i ollum Mot-gange, sokum þess ad Guds Rijki, sem er Riettlæti, Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, byr i hanns Hjarta, jafn-vel þott

þad

þad opt og tijdum sie huled under Veikleika og Sturlan.

36.

Enn vilie hann eigi tapa soddann sijnu saulu hiailpligu Naidar Stande, þa hlytur hann ad bliifa med Trwnne i Christo, og laita sier stiorna af hanns Anda.

37.

Hann hlytur med hiartanligri Bæn og Andans Alvoru-gefni, kostgiæfilega ad brwka þau Naidarinnar Medøl, med hverium hanns Trw kann uppe-halldast og styrkiast, nefnilega Guds Heilaga Ord og Sacramentinn.

38.

Hann verdur þa riett ad vaka, bidia, og strijda mot Dioflenum, Verolldunne og Syndenni, hverrar Epter-leifar loda enn nw vid hann, eñ skulu wt-hreinsast, æ meir oc meir med daglegri

daglegri Endur-nyan, og þar i mot Guds Mynd framar og framar upp-riettast i honum; so hann wt-þrykkeliga laati sjaa i sinu Lijferni, ad hann, sem endur fædt Guds Barn, lijkist þessum Himneska Fodur; elski allt þad er hann elskar, enn hati allt þad er hann hatar, og allt þad, sem Verolldin er full af, nefnilega Augnanna Fysn, Holldsins Lyst og drambsamt Lijferni.

39.

Hann hlytur daglega at afneita siaalfum sier, og þolinmodliga bera Krossin eptir sijnum Frelsara a þeim þraungva Vegi.

40.

Hver sem er stodugur a þessum Vegi alla sijna Lijfs tijd, honum er, ad Lyktum, Daudinn, A-bati og fullkomid Frelsi.

41.

Pvi hann skal a efsta Degi eigi upp-

upp-rijsa til Fordæmingar, helldur til eilijfs vegligs Lijfs, og o-upp-leysanlegrar Sam-einingar med Gudi.

42.

Enn hver sem eigi i þessum Saluhjalparinnar Maata vill med-taka og bruka Guds Naid, hann mun i sijnu synduga Natturunnar Tilstandi, verda fraaskilinn Gude, og hlytur ad vænta Hlutskiptis med Dioflinum og hanns Aarum i eilijfri Fyrir-dæmingu.



Vel-æru-verdugum
Profastinum,
# SERA BIRNE MAGNWSS SYNE,
Pa er hann liet þenna Bækling prenta, eru þessi fa Flytis Ord i Einfelldni til-mællt,
af þeim sem honum
Jafnan Oskar Sæmda.

Sera Bjorn,
Profastur prwdur sai,
Prydi-giorn
Oss hefur laitid sjai
Lærdoms Frædi, er Lydum Lands
Lijka vel ættu,
Hws-bændanium hellst til sanns
Og Hjwum, ef gjættu.

Hafnar Stad
Hann staddur var þá i,

Verkid

Verkid þad
Vinna nam hellst med þvi
Af þvi ad
Embættis giætti frij;
Jdiu-laus var eigi hann.
Hafi hann þock og Heidurs Magn!
Hønum ber æra;
Enn þeir hlioti Andlegt Gagn
Aller sem læra!

## Til þeirra sem vid-taka.

Nemid þier
Ny-komna þessa Book,
Prentad sier
Profástur Efnid took,
Sem Eldra og Yngra ai vid Størf,
Hws-bændur, Hjwin,
Øllum er hwn ærid þørf,
Og all-wel til-bwin.
A vort Mail
wt-geck slijk eigi fyr,

Trwar

Trwar Brjaal
  Tekur af Tempran kyr,
Orda Prjail
  Eingvann hier vekur Styr.
 Sera Bjorn þad samdi vel.
Lands Þiood Jsa Lærdom þann
  Liuft ætti ad smakka,
Og so lijka af Alwd hann
  Alltijd ad þakka.



